Arðrændir og kúgaðir allra landa - sameinist !



# VERKALÝÐSBLAÐIÐ

Málgagn Einingarsamtaka kommúnista (marx-leninista)

8.tbl. 24.apríl - 8.maí 1979 Verð kr.2oo

Takið þátt í
Aðgerðum
Sameiningar 1. maí
– gegn kjaraskerðingu




## SAMEINING 1. MAÍ

## BSRB – félagar: 3

# Fellum samkomulagið!

Gegn kjararáni og niðurskurði á félagslegri þjónustu!

### Samskipti Kína og Víetnam 8

### Hvað er Andóf '79 ? 12

Forsíðumyndin er eftir Sigurð Þóri, myndlistarmann, og sýnir uppskipun í Reykjavíkurhöfn. Myndin er hluti af seríu um ísl. verkafólk við störf.

Hvatning frá EIK(m-l):

### Fyllið raðir okkar! 4

Kúgun kvenna – hluti stéttarlegrar undirokunar.



7

VERKALÝÐS BLAÐIÐ



# Takið þátt í 1. maí-starfinu!

Senn líður að 1. maí. Undirbúningur er hafinn að kröfugöngum og útifundum. Ljóst er, að um verður að ræða aðgerðir á vegum þriggja aðila. Undanfarin ár hafa Baráttueining, sem"Kommúnistaflokkur" Íslands (m-l) hefur staðið fyrir og Samfylking 1.maí, sem EIK(m-l) hefur haft frumkvæði að, verið með séraðgerðir. Nú hefur náðst eining um samvinnu og frumkvæði að myndun öflugrar samfylkingar. Sú samfylking hefur þegar verið stofnuð, Sameining 1. maí - gegn kjaraskerðingum, í Reykjavík.

Í stefnu hennar felst hvatning til baráttu gegn stéttasamvinnustefnunni, kjararáns- og niðurskurðarstefnu ríkisvalds og auðstéttar,svo og hvatning til baráttu gegn erlendri ásælni og herstöðvum hér á landi og fyrir úrsögn úr NATO. Þá er lögð áhersla á baráttu gegn yfirgangs- og stríðsstefnu risaveldanna um allan heim. Sérstökum baráttumálum kvenna og námsmanna eru gerð skil.

EIK(m-l) telja Sameiningu 1. maí vera eina valkost vinnandi fólks. Samtökin hvetja félaga sína, stuðningsmenn og aðra baráttusinna til að taka þátt í starfinu fram að 1. maí. Það þarfnast mikilla krafta.

Við hvetjum fólk til að tengja þau baráttumál, sem það vinnur að nú, við 1. maístarfið og koma fram með kröfur, tengdar þeirri baráttu. Hafið samband við forsvarsmenn Sameiningar 1. maí!

Svokölluð Rauð verkalýðseining (RVEI) og aðgerðir fulltrúaráðs verkalýðsfélaganna eiga ekki skilið þátttöku vinnandi fólks. RVEI styður opið arðráns - og útþenslustefnu Sovétríkjanna víða um heim, svo og hafa forsvarsmenn Fylkingarinnar margsýnt sáttastefnu sína í garð uppkeyptrar verkalýðsforystu Alþýðubandalags og Alþýðuflokks. Að göngu fulltrúaráðsins standa helstu stéttasamvinnuforkólfarnir, menn sem hafa stutt kjararánið og samningsbrotin undanfarna mánuði.

# Stofnum kommúnistaflokk!

Vöntun byltingarsinnaðs forystuafls, hefur komið skýrt fram undanfarna mánuði, - stjórnmálaflokks verkalýðsins, sem leitt gæti varnarbaráttu verkalýðsins og annarrar alþýðu gegn stöðugum árásum auðvaldsins. Um leið og við vinnum að því að efla baráttu fjöldans, þurfum við að brýna þessi mikilvægu atriði fyrir fólki og hvetja það til að ganga til starfa með og ganga í EIK(m-l).

Þetta er sérlega mikilvægt nú, vegna þess að EIK(m-l) hefur ekki tekist, eins og ætlað var, að fylla upp þau skilyrði, sem við töldum nauðsynleg til flokksstofnunar. Við teljum einkum skorta meiri tengsl við baráttu verkalýðsins og þátttöku vinnandi fólks í samtökum okkar. Líkurnar á því að stofnun kommúnísks verkalýðsflokks náist á yfirstandandi ári eru því óverulegar.

Eins og frá hefur verið skýrt, eiga sér nú stað könnunarviðræður milli EIK(m-l) og "KFI/ML" um möguleika á sameiningu samtakanna. Þær viðræður sýna, a.m.k. enn sem komið er, að ágreiningur milli samtakanna er minni en verið hefur fram til þessa. Enn eru þó mikilvæg ágreiningsatriði óleyst og EIK (m-l) munu leggja ríka áherslu á að "KFI/ML" geri að fullu og öllu upp við ranga og skaðlega stefnu forvera síns, "Kommúnistasamtakanna" - "KSML".

Náist að sameina samtökin tvö, mun það tvímælalaust efla baráttuna fyrir stofnun kommúnísks flokks, styrkja baráttuna gegn stéttasamvinnu og endurskoðunarstefnu og auðvelda fólki, sem staðið hefur utan beggja samtakanna að skipuleggja sig með þeim.

Einingarsamtökin munu leggja áherslu á að eining samtakanna verði staðreynd. En samtökin munu jafnframt aldrei víkja frá neinum af grundvallaratriðum hinnar marx-lenínísku byltingarstefnu.

Framkvæmdanefnd miðstjórnar EIK(m-l) 17. apríl.

# Áríðandi tilkynning.

Eins og frá var skýrt í síðasta tbl. Verkalýðsblaðsins fellur kappræðufundurinn í Reykjavík með Alþýðubandalaginu í apríl niður. Flokkurinn svaraði ekki margítrekuðu boði okkar.

Þess var getið að EIK(m-l) í Reykjavík myndu að öllum líkindum halda baráttufund að kvöldi 1. maí. Frá því hefur verið horfið vegna þess að full nauðsyn er til að leggja allt kapp á að gera sameiginlegar aðgerðir SAMFYLKINGAR 1. MAÍ og BARÁTTUEININGAR 1. MAÍ sem öflugastar. Umræddur fundur verður haldinn síðar.

Við hvetjum félaga EIK(m-l), stuðningsmenn og aðra baráttusinna að fylkja sér um samfylkingu verkalýðsins og annarrar alþýðu 1. maí og eyða sem mestum tíma í undirbúningsvinnu og aðgerðirnar sjálfar.

Framkvæmdanefnd miðstjórnar 16.apríl.

## ÍSLAND ÚR NATO OG HERINN BURT - Í GAUTABORG.

Íslendingar í Gautaborg efndu til mótmælastöðu þann 30.mars s.l. við íslenska konsúlatið. Var staðið frá kl. $9^{00}$ - $18^{00}$,undir borða sem á stóð á sænsku - Ísland úr NATO - herinn burt. Fjöldi mótmælenda var um 60 manns þegar flest var. Íslenska konsúlnum var afhelt mótmælaskjal til íslensku ríkisstjórnarinnar. Daginn eftir var haldinn mótmælafundur í Folkets hus í Gautaborg. Þar fluttu menningarefni og ávörp m.a. Þórarinn Eldjárn og Elvar Loftsson. Á eftir voru almennar umræður. Voru fundarmenn sammála um að efla bæri fjöldabaráttu og að ekki væri rétta að treysta á þingflokka í þessum málum. Myndin er frá mótmælastöðunni.




# Dagvistarsamstarfið: Skilið undirskriftum og peningum — takið þátt í starfinu

Heimilisfang samstarfshópsins er Sokkholt, Skólavörðustíg 12, Reykjavík.

Þangað er hægt að skila peningum fyrir seld merki, fá afhent fleiri merki, skila útfylltum undirskriftalistum og fá nýja.

Skrifstofutími samstarfshópsins er fimmtudagar kl. 17.3o til 18.3o.

næg og góð dagvistarheimili fyrir öll börn!

## Samtíningur

### Engin hjól

ÓLAFUR GÍSLASON.... hefur nú tekið við af Elínu Pálmadóttur sem aðalflytjandi hryllingssagna frá Kampútseu. Ólafur flytur frásagnir á vegum Heimsfriðarráðsins(sem er þekkt fyrir að túlka skoðanir Brésnefs á því hvað friður sé) og komst í útvarpið 17. apríl s.l.

Mikið blóð lak af frásögn Ólafs um meinta fjöldaútrýmingu Pol Pots á íbúum landsins. Ekki gat hann frekar en Elín skýrt fyrir okkur hvers vegna og hvernig Pol Pot og hans menn stóðu í þessu. Þetta bara er svona - alveg hryllilegt ! Engar skýringar - engin tilgangur ?

Eitt af því sem Ólafur tók sérstaklega fram var að búið væri að útrýma öllum flutningatækjum - og þar á meðal hjólum og mótorhjólum. Ólafi til hrellingar - eða huggunar birtum við þessa mynd af mótorhjóli í Kampútseu. Og myndin er tekin af svíanum Gunnar Bergström í ágúst 1978 ! Hvað nú Óli?



## Viðtal við Benedikt

Frh. af bls. 3

margir hjálmar til fyrir alla verkamennina. Allar öryggisgrindur á lestalyfturum voru teknar af þeim til að hægt væri að nota þá í botnlestum elstu skipanna. Kranar hafa ekki verið skoðaðir síðan í júlí '77, en eftirlit með þeim á að vera árlegt. Auk þess er hávaðinn frá þeim meira en 115 dB. Vegna tíðnisviðs hávaðans er ekkert gagn í eyrnahlífum eða eyrnatöppum. Þrátt fyrir margítrekaðar óskir um að setja sérstakan hljóðdeyfiútbúnað á kranana hafa forráðamenn Eimskips ekki sinnt kröfum okkar vegna kostnaðarins, sem af mundi hljótast. Skoðun á tækjum, s.s. spilum og bómum um borð í skipunum er algjörlega vanrækt. Í flestum skipum er ástandið þannig að spilin eru í ólagi að einhverju leyti. Ég get nefnt í sambandi við dauðaslysið um daginn, að þá voru þrjú mikilvæg öryggisatriði biluð.

- Hvernig er kröfum ykkar verkamanna tekið af hinum ýmsu aðilum, sem um þær fjalla ? .

- Þótt við trúnaðarmennirnir höfum gert margítrekaðar kröfur um úrbætur hafa þær alltaf strandað á algjörri stífni og "sparsemi" Eimskips og á algjöru sinnuleysi for ystunnar í Dagsbrún. Mig langar að skjóta því að hér, að þegar dauðaslysið varð um daginn, leituðum við til skrifstofu Dagsbrúnar, en þá var enginn við annar en símastúlkan. Gvendur Jaki var að spóka sig í útlöndum og Halldór Björnsson, ritari og starfsmaður Dagsbrúnar, launaður af okkur verkafólkinu, var í sundi í vinnutímanum. Öryggiseftirlitið kom ekki á staðinn, þótt haft væri samband við þá. Við höfum heldur aldrei skilið til hvers þeir eru. Ég held að þeir séu jafnvel verri en ekkert.

Þú spurðir áðan um hver bæri ábyrgðina á dauðaslysinu. Ég held að það sé ekkert rangt við að lýsa ábyrgðinni á þessu slysi ekki aðeins á hendur stjórnenda Eimskipafélagsins, heldur einnig á hendur forystu Dagsbrúnar, sem kjörin er til að gæta hagsmuna verkafólks, en sýnir m.a. með frammistöðu sinni í þessum málum, að hún stendur ekki við okkar hlið heldur við hlið atvinnurekenda.

**Ritstjórnarskrifstofa er á Baldursgötu 7A, sími 28962 Opin þriðjudaga frá kl. 5—7 síðdegis**







# BSRB: Fellum samkomulagið!

Dagana 3. og 4.maí n.k. verður allsherjaratkvæðagreiðsla um samkomulag samninganefndar BSRB og ríkisvaldsins. VERKALÝÐSBLAÐIÐ hvetur opinbera starfsmenn eindregið til að neyta atkvæðisréttar síns og fella samkomulagið. Helstu ástæður þess að við hvetjum fólk til að segja NEI við samkomulaginu eru þessar:

1. Samkomulagið er réttlætt með því, að þar sé BSRB að skipta á 3% kauphækkun og rýmkuðum verkfallsrétti og til lengri tíma vegi verkfallsrétturinn þyngra. Með því að gera verkfallsréttinn þannig að verslunarvöru er í raun afneitað rétti sérhvers launamanns til að leggja niður vinnu. Verkfallsrétturinn er ekki "eign" ríkisvaldsins og við erum því ekki reiðubúin til að kaupa hann af því, hvorki fyrir 3% né neina aðra upphæð. Með þessum samningi reynir ríkisvaldið að skammta okkur þann rétt, sem því hentar. Það velur fyrir okkur vopnin. Ef ríkisvaldið vill ekki viðurkenna óskoraðan rétt opinberra starfsmanna til að fara í verkfall er vert að hafa í huga þau orð sem formaður BSRB viðhafði á fjöldafundi samtakanna í Háskólabíói haustið 1975, en þar sagði hann: "Við fáum aldrei verkfallsréttinn nema við tökum okkur hann."

2. Niðurfelling tveggja ára reglunnar er tvímælalaust til bóta. Hins vegar er vafamál, hvort samkomulagið felur í sér rýmkun á sérkjarasamningunum. Þeir eiga nú aðeins að ná til röðunar starfsheita og manna í launaflokka og gildistími þeirra hefur verið lengdur í þrjú ár. Beiting verkfallsréttar við sérkjarasamningana er óljós vegna loðins orðalags í samkomulaginu. Þó er sýnt að sjálfstæði einstakra félaga er þar með minnsta móti og lögboðið að félögin skuli hafa samflot um verkfallsaðgerðir. Öll félög, sem ætla að nota verkfallsréttinn verða því að hefja verkfall samtímis hvernig sem vígstaða þeirra er. Þau félög, sem ekki fara í verkfall eiga að lúta úrskurði gerðardóms. Í samkomulaginu er talað um að gerð verði skýrari gildandi ákvæði um það hverjir ekki mega fara í verkfall vegna öryggis- og heilsugæslu. Fjölmennir hópar, t.d. símamenn hafa fulla ástæðu til að óttast að hér sé verið að svipta þá verkfallsréttinum.

3. Opinberir starfsmenn hafa eins og aðrir lítið séð af "félagsmálapakkanum" síðan í haust, sem átti að jafngilda nokkrum prósentum vísitölubóta. Enn bólar ekki á efndum þar. Í síðustu árás sinni á vísitöluna ákvað ríkisvaldið enn að skerða stórlega kjör okkar og skipaði meirihluta félagsmanna BSRB á bekk með "hálaunamönnum". Á sama tíma og ríkisvaldið brýtur þannig gerða kjarasamninga getum við ekki samið við það um afnám umsaminna kjarabóta.



**Í samkomulaginu er gert ráð fyrir lögbundnu samfloti** í verkfallsaðgerðum vegna sérkjarasamninga. - Myndin er úr allsherjarverkfalli BSRB haustið 1977.

4. Samkomulagið um afnám 3% hækkunarinnar er liður í víðtækri kaupbindingarstefnu ríkisstjórnarinnar. Af því tagi eru þau rök að félagar BSRB eigi í raun ekki rétt á þessari 3% hækkun. Hún hafi frá upphafi verið háð því skilyrði, að félagar ASÍ fengju kauphækkun í des.s.l. Þar sem aðildarfélög ASÍ kröfðust engra launahækkana þá, þótt þau hefðu lausa samninga, sé óeðlilegt að BSRB fái hækkun. Hún hlyti einnig óhjákvæmilega að leiða til almennrar kaupskriðu og verðbólguöldu. Reynsla undanfarinna ára(t.d. af "láglaunabótunum" 1975) hefur staðfest að það eru ekki launahækkanir sem eru orsök verðbólgunnar, en ríkisvaldið hefur hins vegar "baráttuna gegn verðbólgunni" sem átyllu til að lækka laun verkafólks. Félagar BSRB eiga ekki að láta nota sig sem tæki í því skyni.

5. Atkvæði greitt gegn samkomulaginu er um leið yfirlýsing um andstöðu við stéttasamvinnu og það að forsvarsmenn samtaka launafólks láti fremur stjórnast af flokkspólitískum hagsmunum en hagsmunum umbjóðenda sinna.

## Viðtal við Benedikt Kristjánsson:

# "Vinnuhraðinn settur ofar öryggi verkamanna"

Þann 17.apríl sl. varð banaslys um borð í Tungufossi, þar sem verið var að vinna í honum við Ægisgarð. Einn verkamannanna, Guðmundur Ásmundsson, lést þar við vinnu sína vegna vanrækslu Eimskipafélagsins á að hafa öryggisatriði í lagi. Þetta er þriðja dauðaslysið á 17 mánuðum. Þau eru öll því sama merki brennd að þau má rekja til öryggisvanrækslu fyrirtækisins og virðingarleysis fyrir lífi verkamannanna Verkalýðsblaðið náði tali af Benedikt Kristjánssyni, sem er einn af öryggistrúnaðarmönnum verkamannanna og bað hann að segja, hver bæri að hans áliti ábyrgð á dauða þessa verkamanns.

**- Það eru þeir sem skipuleggja vinnuaðstöðuna hjá Eimskip og setja vinnuhraðann ofar öryggi verkamannanna.** Yfirmenn á Tungufossi tilkynntu bilunina til Tæknideildar Eimskips um morguninn, en hún lét ekki svo lítið að gera yfirverkstjóra og verkstjóra vinnuflokksins viðvart, hvað þá að yfirmenn skipsins hafi látið okkur vita um bilunina, þegar við hófum vinnu um borð. Þvert á móti komu þeir í veg fyrir að við fengjum að vita af henni með því að banna okkur tækjamönnum að koma nálægt bómunni sem gaf sig, en létu skipverja af Tungufossi um verkið. Vinnuhraðinn á þessum vinnustað



er gífurlegur og miklu meiri en annars staðar og öryggisreglur eru þverbrotnar. Þessi hraði eykur auðvitað gróða fyrirtækisins og nýtingu þess á tækjum og vinnuafli verkamannanna. Virðingarleysið við líf verkamannanna er algjört, enda er kostnaður Eimskips af látnum verkamanni ekki nema iðgjald af 623 þús. kr. skyldulíftryggingu, auk 15 króna í símtal. Bæði núna og í dauðaslysinu í okt. sl. var hringt í aðstandendur hinna látnu til að tilkynna slysið. Mér virðist eins og stjórnendur Eimskips vilji jafnvel heldur reikna með eins og 2 dauðaslysum á ári en að kosta því sem til þarf til að bæta öryggið. Það gætu orðið útgjöld upp á nokkrar milljónir.

- Geturðu nefnt okkur fleiri dæmi um brot á öryggisreglum hjá Eimskip ?

- Já, það er nóg af þeim. Það eru t.d. ekki nægilega



Á þessari mynd er bóman í þeirri stöðu,sem hún var rétt áður en dauðaslysið varð í Tungufossi. (Mynd:B.Kr.)

Frh. á bls 2

# Um jafnréttisdóm

Eins og VBL. hefur áður greint frá, féll nýlega dómur í máli, sem Jafnréttisráð og starfsstúlka á Kópavogshæli höfðuðu gegn fjármálaráðuneytinu. Þessi málssókn á sér langa forsögu, en launamismunur eftir kynjum hefir alltaf verið fyrir hendi á Kópavogshæli og einnig Kleppsspítalanum. Upphaflega var litið svo.á, að karlmennirnir væru fyrst og fremst ráðnir til að vernda konurnar við störf sín fyrir árásargjörnum vistmönnum, og var það notað sem átylla til að launa þá hærra. Raunverulega ástæðan var - og er - sú, að laun kvennanna eru fyrir neðan það mark, sem nokkrir full-vinnufærir menn sætta sig við. Í rás tímans hefir þetta misrétti orðið sífellt fáránlegra, bæði hefir geðhjúkrun breyst mikið og þar með starfsemin á umræddum stofnunum, og þá ekki síður viðhorf til verkasiptingar kynjanna. Allar forsendur fyrir því að aðskilja starfssvið gæslumanna og starfsstúlkna eru því löngu úr gildi fallnar. Enda er það svo, að allir málsaðilar - Sókn, BSRB, stjórn Ríkisspítalanna, - viðurkenna fyllilega, að hér sé um sömu störf að ræða.

En fjármálaráðuneytið lætur sem kunnugt er ekki stjórnast af réttlætishugsjónum. Þegar þeim háu herrum varð ljóst, að kröfur jafnréttisráðs snerust um töluverða launahækkun fyrir hátt í tvöhundruð konur, sögðu þeir þvert nei. Því varð það þrautalendingin að höfða mál.

Áður hefir verið greint frá dómnum hér í blaðinu, en hann fól í sér algera viðurkenningu á; að um sömu störf væri að ræða og jafnframt, að fyrir þau beri sömu laun. Voru starfsstúlkunni dæmdar bætur aftur í tímann, eða frá setningu jafnréttislaganna árið 1976, en við þau var stuðst í málsókninni.

Hér er um stóran áfanga að ræða og ótvíræða viðurkenningu á málstað kvennanna. En við hinu þarf tæpast að búast, að þessi málarekstur leiði til leiðréttingar á launamisréttinu. Málið fer nú fyrir hæstarétt eftir áfrýjun fjármálaráðuneytisins. Það má telja líklegt, að Hæstiréttur taki það að sér að "redda ríkiskassanum". Málflutningur fjármálaráðuneytisins byggist á ákvæði vinnulöggjafarinnar um að stéttarfélög séu einu lögformlegu aðilarnir um kaup og kjör félagsmanna sinns. Þetta ákvæði hyggst nú ríkisvaldið nota sér til að komast hjá að dæma starfsstúlkunum kjarabætur. Sama ríkisvald hefir þó aldrei hikað við að brjóta þetta ákvæði með bráðabirgðalögum og gerðardómum til skerðingar á launum verkafólks.

Yfirleitt er mál þetta einkar afhjúpandi á verkalýðsfjandsamlegu eðli ríkisvaldsins. Löggjafarvaldið setur fallega hljómandi lög um jafnrétti, félagslegar umbætur, dagheimili o.s.frv. - framkvæmdavaldið neitar að framkvæma þau! Það sýnir sig því, að þótt málarekstur sem þessi geti verið mjög gagnlegur, þegar um sterkan málstað er að ræða, þarf meira til: fjölda baráttu fyrir úrbótum, gegn fjandsamlegu ríkisvaldi.

*Hvatning frá EIK(m-l):*

# Fyllið raðir okkar!

EIK(m-l) hafa nú starfað í rúm 4 ár. Margir kannast við samtökin af afspurn eða af Verkalýðsblaðinu. Aðrir hafa starfað á einhvern hátt með okkur og hlotið mismunandi reynslu. Þeir eru líka til sem hafa verið félagar í samtökunum en hætt, stundum vegna starfsálags í vinnu, skóla, heima fyrir og með samtökunum.

Til alls þessa fólks beinum við orðum okkar nú.

## *EIK(m-l) byggja nýjan verkalýðsflokk*



Október-forlagið er rekið af félögum **EIK(m-l).** Í búð þess að Óðinsgötu 30 R.vík eru seldar ísl. og erlendar bækur. (Mynd: Vbl.)

Lítill hópur ungs fólks stofnaði EIK(m-l) gagngert til þess að hafa forystu fyrir öllu starfinu sem vinna þarf svo íslenskt verkafólk og önnur alþýða eignist traustan stjórnmálaflokk. Fram að stofnuninni verður að leggja marga steina í grunninn. Til þess þarf raunar bæði starf EIK(m-l) og margþætta hreyfinga og samtaka í stéttabaráttunni.

Meðal hornsteina flokksins eru þessir:

1.Vegvísir.

Hópur fólks, þ.á.m. verkafólks verður að ráða yfir þjóðfélagsvísindum verkalýðsstéttarinnar. Þau eru notuð til að átta sig á stöðunni hverju sinni, móta stefnu og til að starfa eftir.

2.Skipulag.

Sami hópur verður að mynda grunneiningar í starfi meðal fólksins - á vinnustað, í skóla, í stéttarfélagi eða öðrum félögum. Stjórn verður að vera á starfinu, lýðræði verður að vera til og menn verða að vinna samhent og skipulega.

3.Tengsl við fjöldann.

Hópurinn verður að sameina sem flesta er aðhyllast sömu stefnu og starfshætti og hann.

Samtímis því að leggja þessa hornsteina flokksins verða flokksbyggingarsamtökin að starfa meðal fólksins, með því og fyrir hag þess. Í fjöldastarfinu öðlast einstaklingarnir réttari og víðtækari hugmyndir, öðlast pólitíska vitund, taka til við stjórnmála starf eða efla það.

Með allt þetta fyrir augum hafa EIK(m-l) tekið upp marx-lenínismann/kenningar Maó Zedongs, kennt þær og kynnt sem einu fræðikenningu verkalýðsins. Þau hafa skipulagt allöflugt starf miðað við stærð og skipulagt baráttu eða tekið þátt í skipulagðri baráttu og loks unnið að sameiningu íslenskra kommúnista með ágætum árangri. Okkur er því full alvara með að stofna nýjan verkalýðsflokk.

## *Þörf er á verkalýðsflokki.*

Ákaflega margir eru óánægðir með núverandi stjórnmálaflokka - sérstaklega Alþýðubandalagið. Fáir ná uppí eða játast í raun "sósíalisma" þess og tala um kratastefnu og borgaraleg snöp. Af þeim fimmtungi atkvæðisbærra manna hérlendis er styðja AB er stór hluti að því einungis vegna skorts á öðru betra eða í von um breytingar á AB sem aldrei sjást.

Nú virðist dýpri kreppa ætla að berja að dyrum á Íslandi en árin 1969 og 1975. Auðstéttin og ríkisvald hennar gerir allt til að láta alþýðuna bera kreppuna svo auðvaldið megi standast átökin sem lengst. Með þátttöku sinni í ríkisstjórn og með því að halda verkafólki niðri og fá það til að sætta sig við kauprán og önnur álög,- þá gegna svokallaðir verkalýðsflokkar hlutverki þjónsins fyrir auðvaldið.

Í stað stéttabaráttu er sett stéttasamvinna og alröng "samábyrgð aðila vinnumarkaðarins". Menn muna eftir skerðingu verðbóta, lúxusskatti, samdrætti o.s.frv. Og samnings- og verkfallsréttur er æ frekar skertur með aukinni miðstýringu og nýjum drögum að vinnulöggjöf. Gegn þessari pólitísku og efnalegu aðför verður að berjast. Það útheimtir fræðslu, skipulagningu og samtengingu ýmissa þátta baráttunnar í eina heild. Til þess þarf stjórnmálaflokk verkalýðsins.

Í þjóðfélaginu fer ennfremur fram margs konar barátta fyrir úrbótum,gegn arðráni og undirókun. Nefna má baráttu fyrir dagvistun, baráttu gegn erlendri stóriðju, baráttu fyrir alþýðutónlist og kjörum námsfólks. Hér er líka þörf fyrir flokk sem getur lagt fram lið, starfsreynslu og aðstoð og tengt þessa baráttu annari baráttu og ekki síst baráttunni fyrir sósíalísku Íslandi og stéttarveldi verkalýðsins.

Loks má minna á ótryggt heimsástand og yfirgang risaveldanna og leppa þeirra um allan heim - sérstaklega Sovétríkjanna. Borgaralegu flokkarnir fjórir afneita stríðshættunni og verja hver sitt risaveldi. Þeir reka áróður fyrir sáttastefnu og uppgjöf gegn heimsvaldastefnunni. Gegn því stendur baráttustefna kommúnistaflokks fyrir varðveislu sjálfræðisins með öllum ráðum.

Reynslan af Kommúnistaflokki Íslands (1930-1938) sem leiddi djörfustu baráttu verkalýðshreyfingarinnar með mest 8% kjörfylgi og vísir að lífi og stéttvísri baráttu kringum nýju kommúnísku hreyfinguna, sýnir að kommúnistaflokkur er hvorki úreltur né óþarfur, - þvert á móti.

## *Hvernig er að vera félagi í EIK(m-l)?*

Það eru til margar Gróusögur um EIK(m-l) og víst er að fólk er ekki vant að sjá drífandi og skipulega vinnu stjórnmálasamtaka. EIK(m-l) losa sig sífellt meir við barnasjúkdóma og viðvaningshátt. Þau bera nú marga eiginleika raunverulegs stjórnmálaflokks verkalýðsins. Enda hafa samtökin áætlað að stofna hann fyrir árslok 1979. Til þess að svo verði þurfum við fleiri huga og hendur. Og við reynum að ná sameiningu við "KFÍ/ML" sem fyrst. Allt krefst þetta þátttöku sérhvers kommúnista eða baráttumanns sem vill eyða hluta af starfsorku sinni í að umbylta þjóðfélaginu í stað þess að rækta eingöngu eigin garð.

EIK(m-l) eru frábrugðin öðrum stjórnmálasamtökum að flestri gerð. Allir félagarnir eru virkir við lágmarksstörf, sumir hafa sérverkefni að auki. Menn starfa í föstum starfshópum sem halda uppi umræðum um flest stefnumál, fræðslu um marxismann og þjóðfélagsmál og skipuleggja fjöldastarf félaganna í stéttarfélagi eða samfylkingu til dæmis. Félagar selja málgagnið, eru áróðursmenn og greiða föst lág félagsgjöld. Stór hluti starfsins fer fram þar sem félagar starfa - það eru helst fundarsetur á 1-2 kvöldum vikulega sem auka starfsálagið. Baráttan kostar nokkurn tíma, en aðalatriðið er að hugmyndir fólks, baráttukunnátta og stéttvísi þróast betur innan EIK(m-l) en utan. Verði félögum eða samtökunum á mistök er lagt mikið kapp í að leiðrétta þau, finna orsakir og læra af þeim. Lífleg gagnrýni innan EIK(m-l) er því eitt einkennið á samtökunum.

Þetta býður nýrra félaga - þeir hafa litlu að tapa en allt að vinna.

## *Takið skrefið til fulls.*

Þið sem eruð hikandi, efist eða hafið vantrú á getu ykkar, hugleiðið hvernig þið getið breytt því.

EIK(m-l) er ekki óstöðvandi kvörn sem heftir og malar einstaklinginn. Félagar okkar eru úr sama hópi og þið, venjulegt alþýðufólk, ungt og miðaldra, gift og ógift, barnmargt og barnlaust, í námi eða venjulegri vinnu og misvel að sér í fræðunum. Samtökin eru gölluð um sumt, sérstaklega hvað varðar fjöldastefnuna og sveigjanleika í starfi. En þau eru eini valkostur ykkar og eina tæki stéttabaráttufólks til að reka síðustu naglana í nýjan verkalýðsflokk.

Lesandi sæll, hafðu samband við okkur! Leitaðu til starfsmannsins að Óðinsgötu 30 í Reykjavík, til sölumanna Verkalýðsblaðsins eða skrifaðu í pósthólf 5186, 125 Rvk.

Ari T.Guðmundsson
formaður miðstj. EIK(m-l)




Verkalýðsblaðið er málgagn EIK(m-l). Það kemur út hálfsmánaðarlega. Blaðið er eitt mikilvægasta vopn samtakanna. (Mynd: Vbl.)



**EIK(m-l) og Verkalýðsblaðið halda sumarbúðir** á sumri komanda. Þessi mynd er frá sumarbúðunum í fyrra í nágrenni Reykjavíkur. (Mynd: Vbl.)

# Sósíalískt Ísland — er það aðeins hugsýn?




Sósíalískt Ísland - er það aðeins hugsýn án snertingar við raunveruleikann? Er samfélag jafnræðis og alþýðuvalda óhugsandi á Íslandi?

Að sjálfstögðu leita slíkar spurningar oft á okkur kommúnista og andstæðingar sósíalisma eru ósparir á fullyrðingar sem svara ofangreindum spurningum játandi.

## ER SÓSÍALISMINN AÐEINS DRAUMUR?

Sósíalisminn er hvorttveggja í senn hugmyndafræði, sem byggir á hag hins vinnandi fjölda og skipulag þess samfélags, sem hinn vinnandi fjöldi ræður. Þannig er sósíalisminn ríkjandi bæði sem þjóðskipulag og hugmyndafræðilegur grundvöllur í þeim löndum þar sem alþýðan hefur tekið völdin. Í þeim löndum þar sem borgaraleg auðvaldssinnuð hugmyndafræði er ríkjandi er sósíalisminn undirokaður.

Í raun og veru efast enginn um að sósíalisminn sé til sem veruleikur. Jafnvel þeir sem reyna af mætti sá þeirri trú að sósíalismi á Íslandi sé óhugsandi efast ekki um tilvist hans, sem þjóðskipulags. Það ætti því að vera óhætt að samþykkja að sósíalismi sé ekki aðeins draumsýn, heldur hugsanlegur veruleiki.

## STÉTTABARÁTTAN OG SÓSÍALISMINN

Í öllum löndum geysar stéttabarátta, líka í þeim löndum þar sem sósíalískar byltingar hafa orðið. Það er framvinda þessarar baráttu, sem sker úr um það hvers konar þjóðfélagsskipulag er ríkjandi.

Til mikillar einföldunar má segja að samfélaginu sé snúið á hvolf, það sem áður var ríkjandi verður undirokað og hið undirokaða verður ríkjandi. Þetta er byltingin.

Sósíalísk bylting er þess vegna alls engin trygging fyrir því að borgaraleg öfl nái ekki völdum á ný, geri gagnbýltingu og snúi samfélaginu á hvolf á ný. Slíkar gagnbýltingar hafa gerst og eru Sovétríkin besta dæmið þar um. Rússnesk alþýða undir forystu kommúnistaflokksins vann sigur á rússnesku borgarastéttinni og hóf að byggja sósíalískt samfélag. Stéttabaráttan hélt áfram og með sigri falssósíalista, þe.. borgaralegra afla sem skreyttu sig með sósíalisma, í kommúnistaflokknum var leið gagnbyltingarinnar opin.

Í sósíalismanum í Kína heldur stéttabaráttan áfram án afláts. Alþýðan vinnur stærri sigra og tekst á við stærri vandamál.

## ER ÍSLAND UNDANTEKNING?

Sósíalískar byltingar hafa verið gerðar í löndum, sem búa við afskaplega ólíkar aðstæður. Þannig er sýnt að sósíalísk bylting krefst engra sérstakra landfræðilegra aðstæðna. Eitt vandamál hefur þó verið sameiginlegt öllum sósíalískum ríkjum, en það er lágþróuð tæknivæðing og iðnvæðing. Einnig þetta hefur sýnt sig að vera yfirstíganlegar hindranir, enda þótt þær hafi heft hraðfara sósíalíska þróun og uppbyggingu.

Á Íslandi eru aðstæður ólíkar því sem gerist annars staðar, en slíkt er engin hindrun fyrir framkvæmd. sósíalískrar byltingar og uppbyggingar sósíalisma. Vandi sá sem lagður er á herðar íslenskum kommúnistum og framsækinni alþýðu er að staðfæra sósíalísku fræðikenninguna, beita hinum almennu vísindum marx-lèninismans á íslenskar aðstæður.

Á Íslandi er háþróuð tæknivæðing og iðnvæðing komin allangt á veg. Við slíkar aðstæður verður uppbygging sósíalsks samfélags hraðari og mörg vandamál sem sósíalísk ríki hafa þurft að glíma við auðleystari. Ísland er alls engin undantekning. Hér er hægt að byggja upp sósíalískt samfélag.

Sósíalisminn mun gerbreyta Íslandi. Langflest þau vandamál sem auðvaldið á við að glíma verða auðleyst. T.d. þau vandamál sem nú tröllríðá öllu í sambandi við hagnýtingu auðlinda á landi og í hafi.

Sósíalískt samfélag byggir á samræmdu skipulagi annarsvegar og valddreifingu hinsvegar. Þetta þýðir aukið vald til vinnandi alþýðu um leið og hún tekur virkan þátt í skipulagningu framleiðslunnar fyrir alla landsheildina. Í skipulagi sósíalismans á Íslandi verður ekki um að ræða að ríkisstofnanir eins og td. Framkvæmdastofnun ríkisins, sendi "sína menn" til að stýra fyrirtækjum þeim sem stofnunin veitir fjárhagslega aðstoð til. Núna eru ófá dæmi um slíkt. Í sumum tilfellum a.m.k. eru þessi "aðskotadýr" frumkvæði vinnandi fólks til trafala og í öllum tilfellum er um að ræða ofríki.

## HVERNIG LÍTUR SÓSÍALÍSKT ÍSLAND ÚT?

Um það hvernig framkvæmd sósíalisma á Íslandi verður er að sjálfsögðu ekki mögulegt að segja. Hitt er þó ljóst að sú framkvæmd og árangur sósíalískrar uppbyggingar er algjörlega undir okkur sjálfum komin. Fyrir íslenska sósíalista er því brýnt, ekki síst vegna þess áróðurs sem því fylgir, að gera okkur betur grein fyrir að hverju við stefnum í raun og veru. Hvað verður um landsbyggðina? Hvernig nýtir sósíalisminn auðæfi landsins? Hvernig er búið að stjórnsýslu? Hvernig er framkvæmd framleiðsluskipulags? O.s.frv. Margvíslegum svona spurningum verður að svara í grófum dráttum. Það er þess vegna mikilvægt að hefja umræðu um þessi mál og láta hundrað blóm blómstra í umræðunni. Við hvetjum til slíkrar umræðu. Líta má á þennan greinarstúf sem innlegg í slíka umræðu.

## *Íran: Traustari tengsl við Óháðu ríkin*

Í yfirlýsingu Ayatollah Khomeini, þegar hann staðfesti Íslamska lýðveldið í Iran þann 1.apríl sagði hann m.a. að í lýðveldinu yrði ekki um að ræða misrétti gagnvart þjóðlegum minnihlutahópum og að ekki yrði um að ræða mismunun á milli kynja né heldur trúarbragða.

Varaforsætisráðherra Írans Amir Entezam sagði við sama tækifæri um utanríkisstefnu Írans:"Utanríkisstefna okkar byggir á góðum tengslum við önnur lönd, þar á meðal Bandaríkin, Sóvétríkin, og Kína. Skilyrðin eru þau að önnur lönd reyni ekki að skipa okkur fyrir og að þau viðurkenni sjálfstæði okkar. Land okkar leggur áherslu á að hafa samskipti við óháðu ríkin."

## *Kína: 3 ár frá torgmótmælunum*

Þann 5.apríl sl. voru liðin 3 ár frá fjöldauppþotinu á Torgi hins himneska friðar í Bejing. Þessar aðgerðir mikils fjölda fólks voru barðar niður af yfirvöldunum í Bejing og voru þær notaðar sem ástæða til að fjarlægja Deng Xiaoping varaforsætisráðherra úr forystuliði kínversku þjóðarinnar. Aðgerðir þessar voru í raun mótmæli gegn "fjórmenningunum" og um leið minningaraðgerðir fyrir Zhou Enlai, hin látna forsætisráðherra.



**Mynd þessi sýnir hluta tíbetska listahópsins, sem hingað kom á síðasta ári.**(Mynd:Xinhua)

## *Frá aðalfundi KÍM:*

# Áhugaverð starfsemi

### ÁHUGAVERÐ STARFSEMI

Aðalfundur Kínversk-íslenska menningarfélagsins (KÍM) var haldinn 27. mars s.l. Á fundinum var kosin ný stjórn og var Arnaþór Helgason endurkjörinn formaður félagsins. Í skýrslu þeirri sem Arnþór flutti um starf félagsins á s.l. starfsári kom fram að stærsu verkefni þess voru skipulagning á hópferðum til Kínverska alþýðulýðveldisins. Alls tóku 37 manns þátt í þeim ferðum. Auk þess fór vináttusendinefnd til Kína í september í boði Vináttusamtaka kínversku þjóðarinnar við önnur ríki. Í lok október tók KÍM á móti söng- og dansflokki frá Tíbet. Hélt flokkurinn alls 5 sýningar hér á landi, þrjár í Þjóðleikhúsinu og eina á Akranesi og á Selfossi. Alls munu um 3000 manns hafa séð sýningar söng- og dansflokksins.

Í skýrslu sinni sagði Arnþór: "Þess er skylt að geta, að Tíbetarnir kynntu sér ýmis málefni hér, og vakti einkum íslenskur landbúnaður og jarðhiti áhuga þeirra. Er óhætt að fullyrða, að Tíbetarnir lærðu hér ýmislegt um land okkar og þjóð um leið og þeir miðluðu okkur bæði skemmtun og fróðleik um heimaland sitt. Má Kínversk-íslenska menningarfélagið vera stolt af því, hvernig til tókst um heimsókn þessa." Um ástandið í Kína sagði Arnþór m.a. : "Síðastliðið ár var kínversku þjóðinni hagstætt á flesta lund. Þrátt fyrir uppskerubrest í nokkrum héruðum landsins jókst matvælaframleiðslan og iðnaður efldist. Þá jukust samskiptin við erlend ríki og ber þar hæst, að gerður var vináttu- og samstarfssamningur við Japani og tekið var upp formlegt stjórnmálasamband við Bandaríki Norður-Ameríku. Mun þetta án efa verða til þess að hraða tæknivæðingu í landinu og bæta lífskjör kínversku þjóðarinnar frá því sem nú er."

Í febrúar sl. hélt KÍM tvo almenna félagsfundi, þar sem fjallað var um kínversk málefni. Þar fjölluðu þeir Dr. Sigurður Þórarinsson og Páll Ásgeirsson, barnageðlæknir um ferðir sínar til Kína á s.l. ári. Voru fundir þessir allvel sóttir og mjög fróðlegir. (Frásagnir af þessum fundum voru birtar í Verkalýðsblaðinu.)

KÍM er mikilvægur og áhugaverður félagsskadur fyrir alla þá sem vilja halda uppi vináttustarfi við kínversku þjóðina. Í starfi félagsins er fléttað saman bæði menningarlegu, félagslegu og pólitísku starfi. Þá veitir KÍM viðtöku áskriftarbeiðnum að kínverskum tímaritum og blöðum, auk þess sem félagið hefur til sölu kínverskar hljómplötur o.fl. Tímarit og blöð þau sem KÍM býður upp á eru fáanleg á mörgum tungumálum, svo sem ensku, frönsku, þýsku, og esperantó.

Verkalýðsblaðið hvetur alla Kínavini til að gerast félagar í KÍM og veita félaginu liðsinni í því starfi sem fer í hönd.

**– menning og listir**

# Tónlist – vopn í baráttunni



**Nafnlausi sönghópurinn, sem nú hefur tekið sér nafnið** Kjarabót, hefur unnið mikið starf að eflingu alþýðu- og baráttutónlistar á Íslandi. (Mynd: Verkalýðsblaðið)

Við ætlum í þessu greinarkorni að reyna að fjalla vítt og breitt um notkun tónlistar sem tækis til að vinna að baráttumálum alþýðu og gegn hvers konar misrétti og kúgun. Til þess að vita hver baráttumál alþýðu eru á hverjum tíma er nauðsynlegt að líta í kringum sig og byggja á þeim staðreyndum sem við sjáum. Þær eru m.a. langur vinnudagur, stöðug kjaraskerðing, öryggisleysi á vinnustöðum bæði til sjós og lands og margt fleira.

MANNESKJULEGT VIÐHORF TIL LISTA

En hvernig hefur list verið notuð til þess að hjálpa okkur að sjá þessar staðreyndir í skýru ljósi og fá okkur til að breyta þeim til hagsbóta fyrir alþýðufólk?

Í blaðaviðtali við blaðið Ecran Francais vorið 1952 sagði Charles Chaplin eftirfarandi:" Ég trúi á vald hlátursins og táranna sem móteitur gegn hatri og angist. Góðu kvikmyndirnar bregða upp mynd af alþjóðlegu tungumáli, þær fullnægja þörfum mannanna með gleði, samúð og skilningi. Þær stuðla að því að brjóta niður öldur grunsemda og hræðslu sem ganga yfir heiminn í dag. Við höfum gert allt of margar kvikmyndir, sem eru án innri nauðsynjar fullar af sjúku kynlífi, styrjöldum, drápum og óþolinmæði. Þær gera spennuna í heiminum ennþá óbærilegri. Ef við bara gætum skipst á stórum skömmtum af kvikmyndum, sem ekki eru liður í ofbeldisáróðri, heldur tala máli venjulegra manna og kvenna, þá gæti það orðið liður í að frelsa heiminn frá glötun."

Þessi orð Chaplins gilda ekki bara um kvikmyndirnar heldur líka um alla list í heiminum í dag og þar með tónlistina.

Ef við leggjum út frá ummælum Chaplins og færum þau upp á þá tónlist sem við heyrum allt í kringum okkur í dag þá snýst stór hluti hennar um einangruð gervivandamál, skýjaborgarómantík og þannig mætti lengi telja. Þessi tónlist gerir okkur viljalaus og fær okkur ekki til að sjá skýrt eða berjast ákveðið fyrir þeim markmiðum sem eru fjöldanum til heilla.

En sú tónlist sem talar máli venjulegra manna og kvenna, felur í sér bjartsýni, afhjúpar gervivandamálin, fær fólk til að hugsa um stöðu sína í sínu eigin landi og ástandið í heiminum í heild og síðast en ekki síst hvetur fólk til þess að berjast sjálft fyrir rétti sínum – sú tónlist – eins og Chaplin sagði um kvikmyndirnar – er liður í því að byggja upp réttlátari heim.

HVAÐ ER FRAMSÆKIÐ – HVAÐ ER AFTURHALDSSAMT?

Til þess að geta dæmt um hvort tónlist er framsækin eða ekki – hvort hún færir okkur skref fram á við – verðum við að geta áttað okkur á muninum á framsækinni tónlist og afturhaldssamri. En hvernig förum við að því að finna þennan mun? Það gerum við með því að flokka tónlist í ákveðna hópa þar sem hver hópur hefur sín séreinkenni. Þessi flokkun þýðir þó ekki að við dæmum hverja tegund tónlistar fyrir sig s.s. djass eða rokk. Rokkið var áður fyrr flokkað sem afturhaldssöm tónlist í sjálfu sér en á síðustu árum hefur rokktónlist verið notuð til þess að berjast gegn hverskyns kúgun. Sem dæmi um þetta má taka hreyfingu á Englandi sem samanstendur af tónlistarfólki og kallast þessi hreyfing "rock against racism" (rokk gegn kynþáttamisrétti). Þessi hreyfing hefur háð mikla baráttu gegn nýnasistum (National Front) þar í landi. Þetta sýnir að hægt er að nota rokkið sem miðil í framsækinni baráttu.

HVAÐ UM LISTRÆNAR KRÖFUR?

Það er eitt sem við verðum að hafa í huga. Hvaða áhrif hefur flutningur tónlistarinnar á hlustendur?

Við getum ekki dæmt út frá hljómfalli lags eða bara út frá textanum. Til þess að meta áhrif ákveðins lags verðum við að athuga hvernig áhrif það hefur á þjóðfélagsþróunina þó e.t.v. í litlum mæli sé. Fær það okkur til að gleyma líðandi stundu og verða óvirk eða gerir það okkur auðveldar að ná þeim markmiðum sem eru í þágu fjöldans?

Það er ekki nóg að hljómfall lags sé grípandi ef textinn er innihaldslaus. Á sama hátt þýðir lítið að flytja góða texta ef lagið er illa flutt og illa samið. Góðu lagi verður að fylgja góður texti og öfugt. Ef þetta tvennt fer saman er það list. Og hlustendur eiga rétt á því að boðskapur lags sé settur fram á listrænan hátt. Ef svo er ekki er gott að láta ræðurnar duga.

FJÖLDASTEFNA

Til þess að geta tekið rétta afstöðu til tónlistarinnar álítum við bestu aðferðina verá þá að skipta henni í þrjá höfuðflokka. Í fyrsta lagi lítill hópur tónlistarmanna sem stendur algjörlega með alþýðunni og það ber að styðja þá á allan hátt. (Theodorakis, Fria Proteatern, Tom Robinsons Band, Kjarabót, Rauðsokkakórinn ofl.) Svo er annar hópur sem stendur augljóslega við hlið einokunarauðvaldsins og gegn þessum hópi ber að berjast skilyrðislaust. (HLH-flokkurinn sem auglýsir fyrir auðhringinn Coke um leið og hann auglýsir plötu sína, Eric Clapton sem syngur á fundum nasista, David Bowie sem vill koma á fót einræði í Englandi á borð við það sem ríkir í Chile ofl.) Milli þessara tveggja hópa eru tónlistarmenn og hljómsveitir sem flytja tónlist undir áhrifum frá baráttu alþýðunnar en líka frá einokunarauðvaldinu. Þetta er mikilvægur hópur og til þess að fá þá til að nálgast fyrrnefnda hópinn eigum við að beita aðferð jákvæðrar gagnrýni. Í þessum hópi eru t.d. Cornelius Vresesvik Spilverkið, Þokkabót, Þursaflokkurinn ofl. Hluti þessa hóps stendur mjög nærri alþýðunni og baráttu hennar og með réttri pólitík ætti að vera hægt að ná til þessa hóps. Og í mörgum hljómsveitum eru starfandi tónlistarmenn sem vilja ljá baráttunni lið en vita ekki hvernig þeir eiga að fara að því. Margir þeirra koma úr alþýðustétt en er misjafnlega háðir þeim útgefendum og þeim peningamönnum sem öllu ráða í tónlistarbransanum.

Þegar við lítum yfir þessa flokkun sjáum við að í millihópnum er mýgrútur af tónlistarmönnum sem eftir er að virkja til þess að taka þátt í þeirri baráttu sem er framundan. Öll þekkjum við einmanna gítarspilara út í bæ sem aldrei fá tækifæri til að koma fram með sitt efni. Það er því brýnt verkefni að virkja þetta fólk og fá það til að gerast þátttakendur í þeirri framsæknu tónlistarhreyfingu sem við vonum að sé nú að skríða af stað í dag.

Stefna okkar ætti því að vera sú að við gagnrýnum jákvætt það sem jákvætt er og öfugt, samtímis sem við styðjum á allan hátt tónlistarmenn sem vinna fyrir alþýðufólk og baráttumál þess.

Tveir áhugamenn um framsækna tónlist.




# Kúgun kvenna – hluti stéttarlegrar undirokunar

Í bókinni "Uppruni fjölskyldunnar, einkaeignaréttarins og ríkisins" sýnir Engels okkur í meginatriðum fram á þetta: Í frumkommúnismanum voru framleiðslutækin sameign fólksins. Fólk lifði á ávöxtum og jurtum og síðar á veiðum. Ekkert arðrán var til, engar stéttir og heldur ekki ríki. Þar sem konurnar ólu börnin tíðkaðist ákveðin verkaskipting á milli karla og kvenna. Karlarnir veiddu dýr, en konurnar ræktuðu jörðina. Þessi verkaskipting bar ekki með sér neina kúgun; karl og kona voru jafnrétthá, þau unnu bæði að viðhaldi samfélagsins.

Húsdýrahaldið – upphaf einkaeignar.

Síðar breyttust framleiðsluhættir á þann veg að farið var að temja og ala upp dýrin. Húsdýrahaldið varð verk karla, því að það þróaðist í beinu framhaldi að veiðunum. Smám saman varð það mikilvægasti tilverugrundvöllur hvers ættflokks og bætti mjög lífsskilyrðin og gaf meira að segja möguleika til umframframleiðslu. Þessi umframframleiðsla lagði grundvöll að einkaeignaréttinum. Þar sem umframframleiðslan varð á verksviði karlanna, tengdist einkaeignarrétturinn á umframframleiðslunni þegar í upphafi karlmanninum. Síðar þróast eignin á umframframleiðslunni yfir í einkaeign á framleiðslunni allri og framleiðslutækjunum. Þá varð körlum – eigendum húsdýranna – nauðsynlegt að tryggja það, að eignir þeirra gengju í arf til þeirra eigin barna. Til þess að tryggja erfðarétt sinna eigin barna, krafðist karlinn þess að konan yrði sér fullkomlega trú. Einkvænið hófst – en gilti þó aðeins fyrir konuna, ekki fyrir karlinn. Konan var orðin efnahagslega og kynferðislega kúguð af karlinum. Samhliða þessu upphófst stéttakúgunin, þrælar voru herteknir í stríði, eignir hlóðust ekki jafnt upp hjá öllum fjölskyldum, heldur voru sumar fátækar og aðrar ríkar.

Í stuttu máli getum við því sagt að upphaf einkaeignar hafi leitt til kvennakúgunar.

Rangtúlkun

En hvers vegna erum við alltaf að endurtaka þetta? Vegna þess að niðurstöður Engels um tímabilið, þegar einkaeignarrétturinn kom til sögunnar, hafa verið rangtúlkaðar.

Þeir sem hafa rangtúlkað niðurstöður Engels hafa haldið því fram að staða konunnar í fjölskyldunni sé ætíð höfuðhlið kúgunarinnar.

Í dag lifum við í þjóðfélagi þar sem flestar fjölskyldur eru eignalausar, þ.e. eiga engin atvinnutæki. Er þá **hægt að segja að verkaskiptingin í fjölskyldunni sé** orsök kvennakúgunarinnar, eða verðum við að leita út fyrir fjölskylduna að höfuðmeinsemdinni?

Konur hafa ekki alltaf verið kúgaðar. Sú staðreynd er einnig mikilvæg í kvennabaráttunni í dag, því að ef það væri svo, að verkaskiptingin orsakaði kvennakúgunina, yrði henni aldrei aflétt – því að það verða alltaf konur sem fæða börnin.

Auðvaldið – óvinur kvennabaráttunnar.

Í auðvaldsþjóðfélagi heldur konan áfram að vera kúguð. Vinna hennar utan heimilisins er ekki metin á sama hátt og vinna karlsins, heldur sem óveruleg viðbót. Laun hennar eru lægri og atvinnumöguleikar færri. Konur eru varavinnuafl auðvaldsins. Þegar vel árar á vinnumarkaðnum er konum ýtt út að vinna, en um leið og eftirspurn eftir vinnuafli minnkar, eru þær sendar heim. Konur fá vinnu síðast af öllum og eru fyrstar til að missa hana. Þær fá lélegustu störfin og þau lægst launuðu.

Leiðin til fullkomins jafnréttis.

Sögulega séð er kvennkúgunin þannig til orðin að konum var úthlutað óæðra hlutverki í samfélagslegri framleiðslu. Þar sem kvennakúgunin byggist á þessu enn þann dag í dag, getur kvenfrelsun ekki orðið að veruleika nema þetta fyrirkomulag verði að engu gert. Konur verða að taka fullan þátt í félagslegri framleiðslu og í öllu samfélagslegu lífi og starfi. En það verður aðeins, þegar launaþrælkunin og arðránið eru afnumin, að afnám kvennakúgunar kemst á dagskrá. Þetta gerir baráttuna fyrir kvenfrelsun að hluta af hinni miklu baráttu fyrir sósíalisma og sósíalískri **byltingu.**



# Hver er valkosturinn í kvennabaráttunni?

Kristjana Bergsdóttir var eitt sinn félagi í Rauðsokkahreyfingunni. Hún gekk úr henni ásamt fleirum árið 1976 eftir miklar deilur sem þá urðu um stefnu og starfshætti hreyfingarinnar. Hún tók þátt í starfi 8.mars-hreyfingarinnar í fyrra og hefur starfað þar síðan. Hún situr nú í stjórn 8.mars-hreyfingarinnar. Við tókum Kristjönu tali til að ræða við hana um kvennabaráttuna á Íslandi í dag, einkum með tilliti til þessara tveggja hreyfinga.



*viðtal við Kristjönu Bergsdóttur*

– Kristjana, hvaða stöðu telur þú að Rauðsokkahreyfingin hafi í íslenskri kvennabaráttu í dag ?

– Rauðsokkahreyfingin vill láta líta á sig sem róttæka og framsækna kvennabaráttuhreyfingu. Nú um langan tíma hefur hún verið eina kvennahreyfingin sem hefur það á dagskrá að berjast gegn kvennakúgun á hinum ýmsu sviðum. Að mínu áliti eru hins vegar alltof margir gallar á starfi og stefnu Rauðsokkahreyfingarinnar til að hún geti verið það framsækna afl sem kvennabaráttan þarfnast, – þ.e. öflug, framsækin kvennahreyfing.

– Hver eru helstu rökin fyrir því ?

– Hversu mjög sem Rauðsokkar afneita feminisma, þá er það staðreynd, að öll skrif og málflutningur þeirra einkennast af "hinni bágu stöðu kvenna, samanborið við karla". Þeim væri nær að rífa sig upp úr þessum samanburðarpælingum og vinda sér í baráttuna, því að nóg er af góðum baráttumálum hjá þeim. Með því móti mundi aukast allur skilningur kvenna á því, að ekkert vinnst nema með baráttu þeirra sjálfra. Þær gætu þá gert sér betur grein fyrir andstæðingnum – auðvaldsskipulaginu – og fyrir takmarki sinnar eigin baráttu. Og að mínu mati er þetta takmark ekki að "standa jafnfætis körlum", heldur að brjóta af sér hlekki félagslegrar, pólitískrar og efnahagslegrar kúgunar, og að tekið sé tillit til þeirrar sérstöðu að það eru konurnar sem fæða börnin.

Afstaða Rauðsokka til fjölskyldunnar er sama femínistamarkinu brennd, þ.e. að telja fjölskylduna aðalmeinsemd og undirstöðu kvennakúgunarinnar. Sú afstaða leiðir til rangrar baráttu, á meðan við höfum upp á ekkert að bjóða í staðinn fyrir það fjölskylduform, sem nú tíðkast.

Þá má nefna að Rauðsokkahreyfingin hefur ekki tekið einarða afstöðu gegn stéttasamvinnustefnu verkalýðsforystunnar, sem á drýgstan þátt í að svæfa baráttu verkalýðshreyfingarinnar og þar með einnig verkakvennafélaganna.

Skipulag Rauðsokkahreyfingarinnar hefur frá fyrstu tíð verið miðað við konur, "laust og frjálslegt form", sem leiðir það eitt af sér að stefna og starf hreyfingarinnar verður reikult og nær aðeins með höppum og glöppum fram að ganga. Slíkt skipulag einkennist af hentistefnu. Alþýðukonur sem yfirleitt vinna mjög mikið og hafa lítinn tíma aflögu eiga erfitt með að falla inn í þetta skipulag og fylgjast með starfinu. Þær verða að geta gengið inn í vel skipulagt starf, svo að þær geti hent reiður á öllu sem er að gerast, þrátt fyrir lítinn tíma.

Ég gæti nefnt margt fleira sem kalla má galla á starfi og stefnu Rauðsokka, en þetta verður að nægja í bili.

– Nú hefur Rauðsokkahreyfingin rétta afstöðu í ýmsum málum. Er þá ekki hægt að líta svo á að hún GETI að minnsta kosti barist framsækinni baráttu ?

– Jú, í einstökum málum, t.d. í baráttunni fyrir sjálfsákvörðunarrétti kvenna til fóstureyðinga, gegn klámi, fyrir úrbótum í dagvistarmálum og í einstökum atriðum innan kjarabaráttu alþýðukvenna, s.s. fæðingarorlofi, kauptryggingu í frystihúsum, launajafnrétti karla og kvenna fyrir sömu störf o.fl.. En þetta er ekki nóg. Það eru til fjölmörg samtök, sem hafa rétta afstöðu í ýmsum atriðum kvennabaráttunnar, án þess að ástæða sé til að kalla þau sérlega framsækin. Meira að segja Sjálfstæðiskvennafélagið Hvöt hefur t.d. rétta afstöðu til kröfunnar um fleiri dagvistarheimili, sveigjanlegri vinnutíma foreldra, lengra fæðingarorlofs, gegn klámi o.fl.

– Sé Rauðsokkahreyfingunni hafnað verðum við að geta bent á einhvern betri valkost. Er 8.mars-hreyfingin sá valkostur ?

– Já, það álít ég. Að vísu hefur starf hreyfingarinnar hingað til nær eingöngu miðast við alþjóðlegan baráttudag kvenna – 8. mars. En hreyfingin hefur rétta afstöðu til innihalds kvennabaráttunnar sem hluta af stéttarlegri baráttu alþýðunnar og gæti þess vegna orðið vaxtarbroddur nýrrar framsækinnar kvennahreyfingar.

– Hvernig hefur þessi rétta afstaða helst komið fram í starfi 8.mars-hreyfingarinnar ?

– 8.mars-hreyfingin fór strax af stað með undirskriftasöfnun gegn lokun Mæðraheimilisins, Meðferðarheimilisins og Útideildarinnar, eða hafði að henni frumkvæði. Auk þess átti 8.mars-hreyfingin upptökin að dagvistarsamstarfinu, sem nú er í gangi og starfar ötullega að því. Loks stóð hún að sameiginlegum baráttufundi með Rauðsokkum í tilefni 8. mars. 8.mars-hreyfingin leggur áherslu á fjöldastarf og styðst við stutta og einfalda kröfugerð. Á næstunni verður tekin um það ákvörðun, hvort kjörorðagrundvöllur hreyfingarinnar verði víkkaður út og verði þannig að uppistöðu í stefnuskrá nýrra kvennabaráttusamtaka.

– Eru þá engar líkur á að 8.mars-hreyfingin og Rauðsokkahreyfingin sameinist ?

– Rauðsokkar eru mjög iðnir við að tala um þær miklu breytingar, sem orðið hafi á hreyfingunni síðustu árin. Vissulega hefur hreyfingin tekið breytingum, en ennþá einkennist starf og stefna hennar af afturhaldssömum og röngum hugmyndum um kvennabaráttuna. Hreyfingin hefur enn ekki náð út í raðir alþýðukvenna, né aflað sér tiltrúar eða skilnings almennings, þrátt fyrir margra ára starf. Enn byggist hún upp á starfi skólastúlkna og menntakvenna. Þessi staða Rauðsokkahreyfingarinnar í dag er svona slæm vegna þess að pólitík hennar hefur verið vitlaus, en ekki vegna skilningsleysis eða gáfnaskorts íslenskra alþýðukvenna. Vegna þessa er í dag stór hópur kvenna, sem ekki kærir sig um að starfa innan Rauðsokkahreyfingarinnar, en myndu kjósa að hafa annan og betri valkost til að starfa að málefnum kvennabaráttunnar. 8.mars-hreyfingin er enn ekki orðin sá valkostur, en ég er sannfærð um að hún á eftir að verða það. Þess vegna er mjög mikilvægt að allar þær konur, sem vilja taka þátt í að skapa og byggja upp þennan valkost komi til starfa. Hér er mikill akur óplægður. Við erum rétt að byrja að róta í honum.

– – –

Verkalýðsblaðið þakkar Kristjönu Bergsdóttur viðtalið. Um leið viljum við hvetja sem allra flesta til að hafa samband við hreyfinguna og gefa sig fram til starfa. Hægt er að hafa samband við 8.mars-hreyfinguna í s. 3 24 94 (Ásta)

# Samskipti Kína og Víetnam

Undanfarna mánuði hafa stjórnvöld í Víetnam endurritað þann kafla í sögu Víetnam er fjallar um samskiptin við Kína eftir 1945. Í stað þess að þakka og hylla þá miklu hjálp sem Kína veitti Víetnam í baráttunni gegn bæði frönsku og bandarísku heimsvaldasinnunum, þá útnefna þeir Kína sem óvin númer 1.

Andstæðurnar milli Kommúnistaflokks Kína og Víetnamska verkamannaflokksins (nú heitir hann Kommúnistaflokkur Víetnam) hafa lengi verið til staðar, en þær hafa ætíð verið minni háttar og horfið í skuggann af baráttunni gegn bandarísku heimsvaldastefnunni. En hin nýja "saga" sem nú er rituð í Hanoi byggir á því að rangfæra samskipti Víetnam og Kína, í þeim tilgangi að "sanna" að Kína hafi í raun aldrei stutt víetnama heilshugar í baráttu þeirra. Það er því tímabært að skoða þessi mál í stórum dráttum og hrekja það helsta sem leiðtogarnir í Hanoi setja nú fram sem "hið sanna í málinu".




**Þessi mynd sýnir hátíðahöld í N-Víetnam um 1960. Fer** ekki á milli mála að tengslin við Kína eru náin. Ho Chi Minh t.v., Mao Zedong t.h.

## STUÐNINGUR FRÁ KÍNA ALLT FRÁ UPPHAFI

Kínverjar studdu frelsisbaráttu víetnama frá fyrstu tíð. Mjög náið samband var á milli kínversku kommúnistanna og flokks Ho Chi Minh, má m.a. nefna það að Ho dvaldist um tíma á frelsuðu svæðum kínverska flokksins í suður Kína. Frelsishreyfingin Víetminh þáði mikla aðstoð frá kínversku kommúnistunum t.d. eftir að frakkar tóku Hanoi 1947. Sameiginlegt markmið þeirra var að berjast gegn ásókn heimsvaldasinnanna í Asíu.

## TVÆR STEFNUR Í HANOI

Í lok fimmta áratugsins eftir að Frakkar höfðu verið sigraðir, tókust tvær stefnur á í forystu víetnamska flokksins. Samkvæmt annarri afstöðunni átti að snúa öllu afli að efnahagsuppbyggingu Norður Víetnam en þeir sem voru á öndverðum meiði vildu styðja baráttuna gegn Bandaríkjaleppnum Diem í Suður Víetnam af öllu afli. Sovétríkin, sem nú höfðu yfirgefið utanríkisstefnuna sem fylgt var á tímum Leníns og Stalíns, studdu fyrrnefndu stefnuna. Var það í fullu samræmi við kenningar Krúsjoffs um "friðsamlega sambúð". Kínverjar studdu hinsvegar þá sem vildu heyja baráttuna gegn síauknum afskiptum Bandaríkjanna í Suður Víetnam.

## AFSTAÐA SOVÉTRÍKJANNA

Það er vert að skoða nánar afstöðu Sovétríkjanna í upphafi baráttunnar. Krúsjoff hafði gert kenningarnar um friðsamlega sambúð að hornsteini utanríkisstefnunnar, m.a. neitaði hann að styðja frelsisbaráttu Alsírbúa - hann kvað það vera "franskt innanríkismál"!

Friðsamleg sambúð Krúsjoffs náði svo langt að hún átti að gilda um samskipti kúgaðra þjóða og heimsvaldasinnanna - enda taldi hann að frelsisstríð Víetnama ógnaði heimsfriðnum þar sem "lítill neisti gæti kveikt heimsbál". Þessi afstaða Sovétríkjanna varð til þess að samband Víetnam og Kína styrktist og árið 1963 birtist opinber gagnrýni á afstöðu Sovétríkjanna í Hanoi. 25. apríl 1964 þakkaði Pham Van Dong forsætisráðherra Víetnam kína fyrir "öflugustu, ákveðnustu og árangursríkustu aðstoðina". Og í viðtali við Guardian sagði hann að "Kína gefur okkur allt sem við biðjum um og líta á okkar baráttu sem sína eigin baráttu". Enn eitt dæmið um birtingarmynd hinnar "friðsamlegu sambúð Sovétríkjanna að mótmæla ekki einu sinni þegar að bandaríski flugherinn hóf loftárásir gegn N-Víetnam 1964. Kína lýsti því yfir aftur á móti að þeir litu á þetta sem árás á Kína!

Eftir fall Krúsjoffs tók Kosygin að sér að flytja boð frá bandarísku stjórninni til stjórnarinnar í Hanoi. Um áramótin 1964-65 flutti hann þau boð að Bandaríkin væru reiðubúin að taka upp friðarviðræður án nokkurra fyrirframskilyrða - ef stjórn N-Víetnam væri reiðubúin að gefa upp á bátinn stuðning sinn við baráttunna í S-Víetnam. Daginn eftir að Kosygin kom til Hanoi hófust daglegar sprengjuárásir á N-Víetnam, og í stað þess að mótmæla þeim þá hélt Kosygin áfram að reka erindi Bandaríkjanna!

## ENGIN VOPN FRÁ SOVÉTRÍKJUNUM!

Kína sendi vopn og vistir reglulega til Víetnam allt frá árinu 1960. Eftir að Sovétríkin breyttu afstöðu sinni (1965) og sögðust ætla að senda vopn til Víetnam þá buðust kínverjar til þess að sjá um flutning þeirra í gegnum Kína. Fjöldi járnbrautarvagna var sendur til landamæra Sovétríkjanna til að taka á móti þeim vopnum sem Kosygin hafði lofað - en vagnarnir biðu mánuðum saman án þess að nokkur vopn bærust. Í nýlegri útgáfu af þessum atburðum segja víetnamar að Kína hafi neitað að flytja vopn frá Sovétríkjunum til Víetnam! En samkvæmt fyrri yfirlýsingum Víetnama var ekki við Kína að sakast í þessu efni.

## VÍETNAMAR AFNEITA KENNINGUM KRÚSJOFFS

Í nóvember 1964 var haldin ráðstefna í Hanoi. Þar var hugmyndinni um að stöðva bæri átökin í S-Víetnam hafnað ásamt þeim kenningum sem sögðu að hættan á heimsstyrjöld ykist við frelsisbaráttuna í Víetnam. Báðar þessar kenningar komu frá Sovétríkjunum, en Kína studdi frelsisbaráttu kúgaðra þjóða bæði í kenningum og á raunverulegan hátt með því að gefa bæði vopn og vistir.

Sovétríkin sáu fram á að þau myndu tapa allri fótfestu meðal víetnama og höfðu því stuðning í formi lána mörgum árum eftir að Kína fór að gefa vopn.

## BARÁTTA Í VÍETNAMSKA FLOKKNUM

Þó svo að víetnamar og kínverjar stæðu saman gegn kenningum Sovétríkjanna og þótt þær væru mjög and-

# „Hugmyndafræðin bauð upp á útþenslu"

Verkalýðsblaðið hafði fyrir skömmu samband við Þorstein Helgason og bað hann að svara tveimur spurningum um innrás Víetnama í Kampútseu. Þorsteinn er með fróðari mönnum hérlendis um gang mála í Kampútseu og má í því sambandi benda á útvarpserindi hans sem vöktu mikla athygli, m.a. fyrir það hversu vel Þorsteinn rökstuddi mál sitt

VBL. Víetnamar og Kampútseumenn hafa ásakað hvorir aðra um yfirgang - hvaða atriði telur þú að sýni hver sé árásaraðilinn?

Þorsteinn: Víetnamska flokksforustan hefur erft verstu stórabróðurkenningar kommúnistahreyfingarinnar. Á 4. áratugnum sögðu þeir: " Við getum á engan hátt hugsað okkur, að um sérstaka kampútsanska byltingu verði að ræða." Deilurnar í heimshreyfingu kommúnista um 1960 fjalla m.a. um rétt flokkanna til að móta eigin stefnu eða lúta forræði Moskvu. Árið 1960 er Kommúnistaflokkur Kampútseu stofnaður og markar sér mjög sjálfstæða braut. Víetnamar dreymir hins vegar um "sambandsríki Indókína" eða "sérstök tengsl" við Laos og Kampútseu. Hugmyndafræðin bauð því upp á útþenslu. Pólitískt eygðu Víetnamar einnig landvinningaleið vegna þeirrar (takmörkuðu) samvinnu sem þeir höfðu haft við Kampútsana í stríðinu við bandaríska herveldið. Hernaðarlega þóttust þeir færir í flestan sjó. Með því loks að kasta sér í faðm Sovétríkjanna álitu þeir sig loks fá nægilegan efnahagslegan og hernaðarlegan bakhjarl.

Kampútsanar hafa jafnan fylgt eindreginni sjálfstæðisstefnu með samvinnu við óháðu ríkin efst á blaði. Við Víetnam hafa þeir viljað hafa eðlileg tengsl en ekki "sérstök", en þetta reyndist erfitt að fá. Víetnamar viðurkenna ekki lengur samninga um landamæri ríkjanna skv. Brésnéf-línunni, sem ríkisstjórn Alþýðulýðveldisins Víetnam skrifaði undir 8. júní 1967.

Greiðar vopnasendingar (frá Kína) hafa þeir ekki haft síðan Víetnamar lokuðu fyrir þær með Parísarsamkomulaginu við Bandaríkjastjórn 1973. 80-90% af vopnum sínum hafa þeir jafnan fengið sem herfang. Með þetta leggja menn ekki í stórárásir.



Myndin er af skæruliðum Pol Pot og er hún tekin á frelsuðu svæði í Suð-vestur Kampútseu.(Mynd:Sygma photo)

Víetnam og Kampútsea eru tvö lönd með ólíka tungu, letur, menningu, siði og sögu. Kampútsea er stórt land miðað við fólksfjölda og frjósamt. Kampútsanar leystu fæðuöflunina á tryggan hátt með áveitum og á mettíma eftir byltinguna. Í Víetnam herjar enn hungur, sundurþykkja og svartamarkaðsbrask. Í Kampútseu ríkti eindrægni og friðsemd. Kampútsanir girntust ekki annars land.

VBL. Nýjustu sögur um svokölluð hryðjuverk Pol Potstjórnarinnar koma nú frá Víetnam og Sovétríkjunum. Hafa þeir bætt einhverju við þá mynd sem fylgismenn bandarísku heimsvaldastefnunnar reyndu að útlista fyrir okkur fyrir innrás Víetnama?

Þorsteinn: Litlu, því að Víetnamar löptu snemma upp það sem vestrænir áróðursmenn höfðu að segja. Hið lágkúrulega áróðursrit ritstjóranna á Readers Digest, Morð á blíðu landi, var lesið sem framhaldssaga í Hanoiútvarpinu. Þeir hafa helst bætt við lýsingu á líkum sem er þó erfitt að nota sem sönnun í landi, sem hefur átt stutta friðartíma síðan 1970 einkum vegna hernaðar Bandaríkjamanna og Víetnama. Sem heildarskýringu á atburðum í Víetnam segja þeir, að Kínverjar hafi stjórnað öllu, jafnvel að Pol Pot sé Kínverji og hafi ætlað að tæma landið til að hleypa Kínverjum inn, sem síðan legðu undir sig heiminn, land fyrir land. Heldur mögur skýring!



Mynd af Eisenhover og Krúsjoff frá 1959. Hún var birt á forsíðu bókarinnar "Látum oss lifa í friði og vináttu", sem var gefin út í Moskvu. Þessi mynd er skýr vottur um þær hugmyndir endurskoðunarsinnanna í Kreml. "Friðsamleg sambúð" við heimsvaldastefnuna á kostnað ánauðugra þjóða var sá boðskapur sem Krúsjoff hafði að færa víetnömum.
Frelsisstríð Alsírbúa kvað Krúsjoff vera franskt innanríkismál.

stæður frelsisbaráttu víetnama, þá áttu Sovétríkin stuðningsmenn í forystu víetnamska flokksins. Innan hans fór fram barátta - en út á við tók hann ekki afstöðu til deilnanna milli Kína og Sovétríkjanna. Og þrátt fyrir það að deilurnar snérust um grundvallaratriði eins og hvort "friðsamleg sambúð" skyldi ná yfir öll samskipti (þ.á.m. Víetnam og bandarísku heimsvaldasinnanna) og hvort friðsamleg leið til sósíalismans væri fær - þá var ekki á þær minnst í sögu víetnamska flokksins! Merki þess hvert flokkurinn stefndi komu fram 1968 þegar hann studdi innrásina í Tékkóslóvakíu. Ennfremur tók víetnamski flokkurinn ekki afstöðu gegn kenningu Brésneffs um takmarkað sjálfstæði sósíalískra landa - en beitir þeim kenningum í dag gegn nágrönnum sínum Laos og Kampútseu!

Samtímis því sem kínverski kommúnistaflokkurinn varð harðari í andstöðu sinni gegn endurskoðunarstefnu sovéska flokksins þá þróaðist víetnamski flokkurinn nær afstöðu hins sovéska-baráttunni í víetnamska flokknum lyktaði með sigri þeirra afla sem studdu Sovétríkin.

## AFSTAÐA KÍNA

Í stað þess að hefja gagnrýni á afstöðu víetnama þá létu kínverjar afstöðu þeirra liggja á milli hluta. Þeir litu svo á að baráttan gegn bandarísku heimsvaldasinnunum væri meginmálið, enda var árás í Indókína liður í stefnu þeirra að umkringja Kína og stemma stigu við "kommúnistahættunni".

En Kína átti einnig í höggi við Sovétríkin, 1969 gerðu Sovétríkin innrás í Kína við Ussurifljótið samtímis því sem þau hófu alþjóðlega rógsherferð gegn Kína. Kínverjar álitu að sífellt meiri hætta stafaði frá vaxandi yfirgangsstefnu Sovétríkjanna og þeir undir bjuggu sig til að mæta þeirri hættu. Einn liður í því var að ná eðlilegum samskiptum við Bandaríkin og stöðva tilraunir þeirra til að umkringja Kína. Í ársbyrjun 1972 var Nixon boðið til Kína og þar undirritaði hann s.k. Shanghaisáttmála þar sem hann m.a. viðurkennir að þjóðir Indókína skuli ráða sínum málum sjálfar og að bandarískur her skuli dreginn til baka.

Kínversku leiðtogarnir sem áttu fundi með Nixon skýrðu honum frá því að eðlilegt samband yrði aldrei á milli Kína og Bandaríkjanna fyrr en að Bandaríkin létu af árásum sínum í Indókína. Ekkert af því sem þeir fjölluðu um fól í sér svik við málstað Víetnam, og bæði fyrir og og eftir heimsókn Nixons héldu kínverjar áfram að senda vopn og vistir til Víetnam. Í dag eru fundir kínverja með Nixon taldir dæmi um sviksemi þeirra gegnvart Víetnam. Sögur um að Kína hafi gert baktjaldasamninga sem miðuðu að því að stöðva frelsisstríðið eru nú heilagur sannleikur hjá víetnömsku forystunni og fylgifiskum hennar um allan heim. En allar staðreyndir tala öðru máli - og það að setjast til borðs með Nixon táknaði engan veginn svik, því samtímis því sem víetnamar fundu að heimsókn Nixons til Peking þá voru þeir sjálfir uppteknir við að ræða við sendimenn Bandaríkjanna í París. Og stuttu seinna heimsótti Nixon Moskvu án þess að nein athugasemd kæmi frá Víetnam. Augljóslega liggur eitthvað annað á bak við en áhugi á að draga fram staðreyndir í áróðri Hanoi og Moskvu í dag.

## NÁNARI TENGSL VIÐ SOVÉTRÍKIN

Frá árinu 1973 verður æ greinilegra að víetnamska forystan fylgir Sovétríkjunum að málum og fram kemur opinber gagnrýni á afstöðu Kína gagnvart Sovétríkjunum. 1973 kom fram sú afstaða víetnömsku forystunnar að afstöðuleysi þeirra til deilna Kína og Sovétríkjanna var n.k. taktík. Hoang Tung, leiðandi félagi í víetnamska flokknum, sagði í viðtali við sænskan fréttamann að: "á meðan stríðið stóð var nauðsynlegt fyrir Víetnam að mikil hjálp bærist til N-Víetnam bæði frá Kína og Sovétríkjunum. Í dag er ekki lengur svo mikilvægt að fylgja þeirri stefnu... hagsmunir Sovétríkjanna og Víetnam fara saman - að minnka áhrif Kína í þessum heimshluta". Einnig sagði Hoang Quoc Viet, háttsettur í miðstjórn víetnamska flokksins, að samningar Kína við Nixon hafi falið í sér fórn á málstað lítilla þjóða.

1975 undirstrika Víetnamar enn fjandskap sinn gagnvart Kína með því að hertaka Nansha og Xisha eyjaklasana sem hafa tilheyrt Kína frá fornu fari. Smátt og smátt ánetjast Víetnamar Sovétríkjunum og 1977 verður töluverð breyting, mikil samskipti hefjast á milli Moskvu og Hanoi, m.a. dvelur Pham Van Dong í Moskvu í tæpan mánuð og Giap hershöfðingi kemur þangað í opinbera heimsókn. Stuttu seinna hefjast stórfelldir vopnaflutningar til Víetnam frá Sovétríkjunum.

Um áramótin 1977-78 sækir víetnamski herinn inn í Kampútseu - Kína styður Kampútseu og Víetnamar byrja að tala um "útþenslu og yfirráðastefnu Kína". 1978 gengur svo Víetnam í Comecon, efnahagsbandalag Sovétríkjanna og fylgiríkja þess. 3. nóvember 1978 undirrita Víetnam og Sovétríkin "vináttu og samstarfssamning" sem í raun þýðir að Víetnam hefur gengist undir hernaðarlega hagsmuni Sovétríkjanna - rúmum mánuði seinna hefst svo stórfelld innrás Víetnama inn í Kampútseu í þeim tilgangi að leggja landið undir sig.

Árið 1978 byrja einnig ofsóknir á hendur Kínverjum búsettum í Víetnam - langflestir þeirra sem flýja eru verkamenn og bændur frá N-Víetnam, fólk sem hafði tekið þátt í frelsisstríðinu gegn bandarísku heimsvaldasinnunum! Með þessu hafa Víetnamar í reynd sagt upp fyrri samningum milli Kína og Víetnam um réttar stöðu kínverja í Víetnam. Áreitni Víetnama á landamærunum við Kína hefst einnig 1978 og endar með því að Kína gerir gagnárás.

## VÍETNAM HEFUR BREYTT UM AFSTÖÐU

Kínverski kommúnistaflokkurinn hefur ekki breytt um afstöðu í grundvallaratriðum varðandi stuðning við frelsishreyfingar - það hefur víetnamski flokkurinn aftur á móti gert. Kínverski flokkurinn hefur ekki breytt um afstöðu gagnvart rétti minnihlutaþjóðaflokka - það hefur sá víetnamski gert. Afstaðan til sjálfræðis þjóða er óbreytt hjá kínverksa flokknum - en sá víetnamski hefur tekið undir með kenningum Brésnefs um takmarkaðan rétt sósíalískra landa til sjálfsforræðis. Og að lokum þá hefur Kína ekki hertekið önnur lönd og reynt að steypa stjórnvöldum þar. Víetnamski herinn er nú í Laos og Kampútseu og víetnamskir embættismenn eru sendir til þessara landa til að stjórna íbúum þeirra. Víetnam hefur breyst frá því að það háði réttmætt þjóðfrelsisstríð gegn heimsvaldastefnu og kúgun - í dag er Víetnam hlaupatík sósíalheimsvaldastefnunnar.

# CCL(m-l) stofna kommúnistaflokk á árinu

Í síðasta tölublaði var sagt frá komu félaga úr Kommúnistasamtökum Kanada (m-l), CCL(m-l) til Íslands, og greint frá því helsta sem hann hafði að segja um pólitískt og efnahagslegt ástand í Kanada. Vegna þessa eilífa vandamáls sem blaðið á við að stríða, plássleysisins, urðum við að sleppa því sem kanadíski félaginn hafði að segja okkur um CCL(m-l), en lofuðum að birta það í þessu blaði. Uppbygging samtakanna hefur verið gífurlega hröð og er vafalaust margt sem við getum lært af félögum okkar í Kanada.

## "STOFNUM FLOKK Á ÁRINU"

"CCL(m-l) hafa nú starfað í þrjú ár og hefur þróun samtakanna verið hröð fram á við. Árið 1979 er mikilvægt í sögu samtakanna, því við stefnum að stofnun kommúnistaflokks á árinu. Við höfum náð ítökum meðal verkafólks í flestum mikilvægustu borgunum. Hingað til hefur áróður og útbreiðsla marx-lenínismans verið höfuðhlið starfsins. Málgagnið okkar THE FORGE hefur komið út vikulega frá því í september, en það er gefið út í tveim útgáfum, franskri og enskri.

Á næstunni munum við leggja mikla áherslu á að byggja verkalýðsfélögin upp sem virk baráttutæki og verja þau árásum ríkisvaldsins. Í póstmannaverkfallinu í haust tókum við virkan þátt í stuðningsstarfinu við póstmenn. Þessu verkfalli lyktaði þannig að póstmenn voru þvingaðir aftur til vinnu með lagasetningu. Alþýðusamband Kanada (Canadian Labour Congress) studdi ríkisvaldið og hótaði að þeim yrði hegnt sem brytu lögin. Á næstunni munum við taka virkan þátt í þeirri verkfallsbaráttu sem er að fara af stað (sjá síðasta tbl./ritstjórn).

Framundan er einnig mikið pólitískt starf fyrir kosningarnar sem verða í sumar. Hlutverk okkar þar er að sýna fram á að enginn borgaralegu flokkanna er valkostur fyrir verkafólk, og útskýra afstöðu okkar í þjóðlegu spurningunni.



**Málgagn CCL(ML) THE FORGE hefur komið út vikulega frá** því í september, bæði á frönsku og ensku. (Mynd:The Forge)

Á síðustu mánuðum hafa samtökin unnið mikið andheimsvaldastarf. Í desember, stuttu fyrir innrás Víetnama inn í Kampútseu, var sendinefnd frá okkur stödd í Kampútseu. Eftir heimkomu sendinefndarinnar voru haldnir fundir í meira en 20 borgum þar sem innrás Víetnama var harðlega fordæmd."

## BANDARÍSK ÁHRIF GEIGVÆNLEG

"Þó að Kanada sé heimsvaldasinnað ríki, sem ekki aðeins kúgar innlendan verkalýð, heldur einnig erlendan, þá er Kanada 2. heims ríki sem er leiksoppur risaveldanna. Innanlands eru Bandaríkin hættulegri en Sovétríkin, því þau kúga okkar fólk meir. Ítök þeirra eru gífurleg á öllum sviðum þjóðfélagsins. Fjárfestingar Bandaríkjanna í Kanada eru jafn miklar og fjárfestingar þeirra í Evrópu allri. Hernaðarlega er landið mjög tengt Bandaríkjunum með aðild bæði að NATO og NORAD. Menningarleg áhrif Bandaríkjanna eru einnig mikil, sem dæmi má nefna, að svo til allt erlent efni í útvarpi og sjónvarpi kemur frá þeim.

Sovéska heimsvaldastefnan hefur fremur lítil ítök í Kanada. Samt sem áður er endurskoðunarsinnaður flokkur í Kanada, The Communist Party of Canada, sem er ötull talsmaður Sovétríkjanna.

Verkefni okkar eru í fyrsta lagi að berjast gegn áhrifum risaveldanna innanlands, og beinist sú barátta eðlilega aðallega að Bandaríkjunum. Í öðru lagi að gera fólki grein fyrir stríðshættunni og undirbúa alþýðuna fyrir þriðju heimsstyrjöldina!"



Lönd vilja sjálfstæði - þjóðir vilja frelsi - alþýðan vill byltingu

# Kína er ennþá rautt

Kína hefur verið mikið á vörum manna undanfarna mánuði og ár. Pólitísk barátta innanlands og aukin umsvif á alþjóðavettvangi hafa vakið margar spurningar og krafist svara. Ýmsir hafa orðið til að gefa þau svör, en ekki hafa þau öll verið í samræmi við það sem rétt er og satt, heldur hafa andstæðingar Kína reynt að nota tækifærið og ata Kína aur. Því miður hefur þeim tekist að blekkja suma, en sennilega eru það fleiri sem séð hafa hvað rétt er og hvað rangt, og eru heilshugar í stuðningi sínum við Kína. Um það vitna vaxandi samskipti Íslendinga og Kínverja og blómleg starfsemi KÍM. Í eftirfarandi grein verður reynt að varpa ljósi á hvað gerst hefur í Kína og hvert stefnir.

Baráttan gegn fjórmenningaklíkunni sem blossaði upp síðla árs 1976 var barátta upp á líf og dauða fyrir sósíalismann í Kína. Eins og Maó formaður benti á, þá eru til stéttir og stéttabarátta í sósíalismanum. Því takast stöðugt á borgaraleg og verkalýðssinnuð afstaða. Vinni borgaraleg öfl á, verður hættan á endurreisn auðvaldsskipulagsins bráð.

Fjórmenningaklíkan og fylgismenn hennar voru borgaraleg öfl, sem reyndu að grafa undan sósíalismanum í Kína. Fjórmenningarnir lögðust gegn sósíalísku lýðræði og kúguðu og hnepptu í fangelsi þá sem héldu á lofti rétti sínum til gagnrýni. Þeir lögðust gegn því að lífskjör væru bætt á grunni aukinnar framleiðslu og tæknivæðingar, því iðntækniþróun merktu þeir sem borgaralega. Þá réðust fjórmenningarnir gegn æðri menntun sem borgaralegri og stóðu fyrir einstefnu í listum.

Borgaralega stefnu sína földu fjórmenningarnir með vinstri-slagorðaglamri. Þeir vöruðu hástöfum við endurskoðunarstefnunni og endurreisn auðvaldsskipulagsins á sama tíma og þeir tróðu á rauða fánanum og öllum hefðum alþýðunnar, iðkuðu endurskoðunarstefnu og unnu að endurreisn auðvaldsskipulags. Þetta olli mikillri óvissu og ruglaði alþýðufólk, jafnt innan sem utan Kína. Innan Kína leiddi þetta til minnkandi framleiðslu, stöðnunar í vísindum og listum og vantrúar á sósíalískt lýðræði. Hefði ekki tekist að kollvarpa fjórmenningaklíkunni hefði kínverski kommúnistaflokkurinn sennilega klofnað og borgarastyrjöld brotist út.

Eðlilega hefur uppgjörið við fjórmenningana leitt til mikilvægra stefnubreytinga og áréttinga, sem andstæðingar sósíalismans hafa nýtt sér til árása á hann. T.d. hefur aukin veggblaðaumræða og gagnrýni á forystuna verið sögð merki um valdabaráttu og/eða hnignunar sósíalismans.

### HRÖÐ ÞRÓUN INNANLANDS Í KÍNA.

Maó formaður benti á að umbyltingar á sviði efnahagsmála og tækni væri spurning um líf eða dauða fyrir kínversku þjóðina og mikilvægt pólitískt verkefni til að tryggja sósíalismann. Maó benti einnig á að forsenda þróunar hins sósíalíska þjóðskipulags væri að grípa á stéttabaráttunni sem lykilhlekk. Við lausn allra mótsetninga verði því að hafa í huga að til eru tvenns konar andstæður: andstæður meðal alþýðunnar og milli hennar og stéttaróvinarins.

Fjórmenningaklíkan reyndi að draga athyglina frá þessu og setti ósættanlega andstæðu milli iðn- og tæknivæðingar og sósíalismans. Eftir kollvörpun klíkunnar hefur verið hröð þróun á sviðum vísinda og tækni, og það markmið sem Maó setti fyrst fram, að gera Kína að nútímalegu sósíalísku ríki fyrir næstu aldamót, er í augsýn.

Hvað þýðir það að ætla sér að gera Kína að nútímalegu sósíalísku ríki fyrir aldamót? Í landbúnaði þýðir þetta mestu mögulega vélvæðingu, rafvæðingu og notkun áveitna til að tryggja hámarks framleiðslu helstu landbúnaðarafurða. Í iðnaði þýðir þetta aukna sjálfvirkni og meiri framleiðni. Þá þýðir þetta bættar samgöngur og nýtískulegri samgöngutækni.



**Pólitískir fundir á vinnustöðum** eru daglegir viðburðir í Kína. Myndin er frá einum slíkum fundi hafnarverkamanna í Shanghai, þar sem glæpsamleg stefna "fjórmenninganna" er rædd og gagnrýnd. Litla myndin sýnir kínverskan verkamann festa upp gagnrýni sína á veggblaðatöflu,- sósíalískt lýðræði í reynd.

Til að ná þessum markmiðum verður Kína að nýta sér nútíma vísindi og tækni, nýta fleiri hráefni og orkulindir og umbylta framleiðsluferli sinna helstu framleiðsluvara, m.ö.o. standa jafnfætis eða fara farmúr þróuðustu iðnríkjum heims. En þessar breytingar þýða síðan styrkingu alræðis öreiganna í Kína, styrkungu sósíalismans og traustara bandalags verkalýðs og bænda. Og þar sem í Kína er sósíalismi þýðir þetta stórbætt lífsskilyrði alþýðunnar og er í raun forsenda menninarlegrar þróunar. Þetta er því brýnt pólitískt verkefni á sama tíma og efnahagslegt.

Ef það er gagnbyltingarsinnað að bæta stöðugt lífsafkomu alþýðunnar, þá hafa óvinir Kína á réttu að standa um hvert Kína þróast nú. Þeir hinir sömu taka þá vafalaust undir málflutning fjórmenninganna um að það sé byltingasinnað að yrkja jörðina með handafli og nota frumstæða tækni í iðnaði.

### SÓSÍALÍSKT LÝÐRÆÐI BLÓMSTRAR

Eitt af því sem dagblöð vesturlanda hafa reynt að nýta sér til árása á Kína, er umræðan sem fram fer á veggblöðum, inni á vinnustöðum og í blöðum. Veggblöð sem gagnrýna stjórnvöld hafa þessir aðilar túlkað sem merki um valdabaráttu og vaxandi andstöðu fjöldans við stefnu flokksforystunnar.

"Látum fólk segja hug sinn...Ef við leyfum fólki ekki að segja hluti sem eru rangir, gætum við eins reynt að þagga niður í því". Þetta skrifaði Dagblað alþýðunnar í leiðara 3. janúar s.l. Það er viðhorf kínverskra kommúnista, að þá og því aðeins sé unnt að þróa áfram sósíalismann að treyst sé á frumkvæði og eldmóð fjöldans og getu hans til að leysa vandamálin. Og hvernig á rétt stefna að mótast ef ekki má ræða vandamálin opinskátt og láta andstæðar skoðanir mætast? Þetta er kjarni sósíalísks lýðræðis og sýnir styrk þess. Því benda andstæðar skoðanir á veggspjöldunum aðeins til þess að lífleg umræða fari fram og lýðræðið hafi styrkst. Deng Xiaoping sagði við japanska fréttamenn er þeir spurðu hann hvort andstæðar skoðanir á veggspjöldunum í Beijing (Peking) bentu ekki til valdabaráttu innan flokksforystunnar: "Í Kína búa 900 milljónir manna - vart ætlist þið til þess að allir séu á sömu skoðun".

### AÐ NÝTA SÉR REYNSLU ANNARRA ÞJÓÐA.

Sú staðreynd, að Kína verslar nú í auknum mæli við auðvaldsheiminn hefur verið mikið á milli tannanna á andstæðingum Kína. En skoðum málin aðeins nánar:

Allt frá 1949 og fram á síðustu ár, hefur Kína verið í verslunarbanni margra auðvaldsríkja. Þetta þýddi að Kína gat ekki nýtt sér tækni- og vísindaframfarir í þeim mæli sem það óskaði.

Þetta ástand hefur nú breyst. Tilraunir auðvaldsheimsins til að knésetja Kína í gegn um verslunarbann hafa mistekist, og nú slást auðvaldsríkin um að fá að selja vörur sínar til Kína. Kínverjar nýta sér þetta ástand. Þeir kaupa ekki hvað sem er, heldur fyrst og fremst vörur sem hjálpa þeim við iðnvæðingu landsins. Þeir ákveða sjálfir hvað þeir kaupa, hvenær og af hverjum, og því fylgja engar kvaðir af þeirra hálfu. Verksmiðjur og tæki sem keypt eru, eru eign Kínverja, eru reknar af þeim í samræmi við þarfir þeirra. Því geta erlendir aðilar engu ráðið um rekstur eða framleiðslu.

Leiðtogar Kína hafa bent á, að þeir fylgi enn þeirri grundvallarreglu að treysta á eigin krafta og afsala sér í engu fullum yfirráðum yfir efnahagskerfinu og framleiðslunni. "Við gerðum ekki byltingu til að láta auðherra stjórna okkur í dag".

Þessi grein hefur aðeins tæpt á nokkrum þeirra spurninga sem mikilvægt er að taka til umfjöllunar varðandi Kína í dag. Ýmislegt má einnig gagnrýna varðandi Kína, en á grundvelli þeirra upplýsinga sem öllum standa opnar um Kína í dag er óhætt að fullyrða að Kína er sósíalískt og rautt - um það vitnar hið ágæta ástand innanlands og hlutverk Kína á alþjóðavettvangi.

# Sovésk rányrkja í Barentshafi

Á undanförnum árum hefur það gerst í auknum mæli að sovéskir togarar hafa verið teknir fyrir ólöglegar veiðar í Barentshafi af norsku landhelgisgæslunni.

Nýlega var sovéski togarinn Vildnius tekinn við veiðar á lokuðu svæði á Nordkapp-miðum. Var togarinn þá nýkominn frá Murmansk. Þegar komið var inn til Hammerfest með togarann kom í ljós að trollpokinn hafði verið skorinn frá og honum hent í sjóinn. Varla færu rússarnir að skera pokann frá ef allt væri í lagi með hann.

Odd Nakken, aðstoðaryfirmaður Hafrannsóknarstofnunarinnar hefur lagt fram gögn sem sýna að meðalmöskvastærð sovéskra togara í Barentshafi er 88 millimetrar, eða rúmlega 30 millimetrar minna en leyfileg möskvastærð. Sagði Nakken að möskvastærð í trollum flestra landa væri eitthvað undir 120 mm, sem er sú stærð sem leyfð er samkvæmt alþjóðlegum samningum.

Til þess að koma sovéska togaranum Vildnius í höfn þurfti skipstjóri landhelgisskipsins norska að skipa vopnaðri sveit að færa togarann til hafnar. Við þá skipun gaf togaraskipstjórinn eftir og fylgdi með til hafnar.

Sovésk fiskiskip stunda mikla rányrkju á öllum miðum í N-Atlandshafi. Þau skirrast ekki við að veiða bæði innan landhelgi Noregs og á friðuðum svæðum í hafinu.-Klassekampen-



**Mynd þessi sýnir trollpoka úr sovésku trolli.** Skipshöfnin á norska togaranum Ottar Birting kom með pokann inn til Honningsvág. Á myndinni sést að möskvastærðin er um 20 mm.

# Skerfur lesenda

## Um baráttufundinn 11. mars.

Þegar litið er til baka á samstarf 8.mars-hreyfingarinnar (8MH) og Rauðsokkahreyfingarinnar (Rsh) er þar fyrst að nefna mætinguna á baráttufundinn 11. mars, því að hún verður að teljast léleg miðað við fundina tvo í fyrra.

Þarna vantaði mjög mikið af því fólki sem mætti á fund 8MH í fyrra, og sennilega einnig af því sem var á fundi Rsh þá. Ekki ber á að nýtt fólk hafi verið virkjað til starfa. Þetta á sér trúlega enga eina orsök, heldur fleiri. Þar er auðvitað efst á lista, að fjöldastarf (það að reka áróður meðal fólks almennt fyrir fundinum) var lítið sem ekkert fyrir fundinn, hvorki sameiginlegt með hreyfingunum (dreifirit, burstir o.þ.h.) eða sitt í hvoru lagi. Tími vannst ekki til að hreyfingarnar gætu skipulagt sameiginlegt fjöldastarf fyrir 8. mars.

Eins hefur það einnig átt sinn þátt í lélegri mætingu að fresta varð fundinum vegna óveðurs.

Fundarstjóri mun hafa farið út fyrir samkomulag hreyfinganna um fundardagskrá með sínu töluvert langa inngangsorði. Fundarstjóri er og virkur Rauðsokki (og kannski ekki vön öðru en frjálshyggju í þessum málum), en best hefði verið að fá einhvern óbundinn hreyfingunum tveim til að stjórna fundi. Fundarstjóri lét að því liggja í inngangsorði sínu að lítill munur væri á hreyfingunum tveimur - þetta m.a. er vafasamt að 8MH hefði samþykkt, ef hefði verið borið undir hana.

Fundurinn varð heldur langur, og var hléið þar helstur dragbítur. Það var of langt, og fundarstjóra varð það einnig á að tilkynna hlé áður en ávarp fulltrúa frá dagvistarsamstarfsnefnd var flutt, og fór það af þessum sökum ofan garðs og neðan hjá fundargestum, þar sem skvaldur mikið upphófst þegar í stað við tilkynningu hlés.

Samfellda upplestrardagskráin var að mörgu leyti góð, aðallega fyrri hlutinn. Lögð var of mikil áhersla á innrætingarmál í skólunum og einstakar kennslubækur. Réttara hefði verið að leggja mesta áherslu á aðbúnað kennara og nemenda og kreppuráðstafanir yfirvalda í skólamálum. Í heild má segja að í dagskránni hafi verið lagt mikið upp úr því að lýsa ástandinu eins og það er í dag, en minna um hvatningu og baráttuanda.

Það var leiðinlegt að verkakonan frá Akranesi gat ekki komið, það höfðu margir hlakkað til að heyra um refsibónusinn frá henni, en um það er ekki að fást þar sem fresta varð fundinum af ófyrirsjáanlegum ástæðum.

Söngsveitin Kjarabót var auðsjáanlega mjög stór ljós punktur á dagskrá fundarins og einnig ágætt ávarp 8MH í lok hans.

Ekki féll okkur beinlínis vel ávarp Rsh í upphafi fundarins. Stakk þar kannski einna mest í eyru þáttur fjölskyldunnar sem orsök kvennakúgunarinnar í dag. Það er auðsjáanlega þörf á að 8MH móti sér stefnu í þessum málum sem fleirum.

Slíkir fundir, sem sameiginlegi baráttufundurinn 11. mars, bjóða ekki uppá að reynt sé í alvöru á mikilvæg ágreiningsefni, því að þarna er að sjálfsögðu reynt að sameinast um þá hluti sem hægt er að ná samkomulagi um.

Hverjir voru svo pólitískir ávinningar með fundinum? Þetta er mjög tengt því að aðeins kemur fram yfirborðseining milli hreyfinganna, Rsh er rótgróin og hefur starfað lengi svipuð að innihaldi.

Við álítum að helsti ávinningurinn hafi verið sá að komið hefur skýrar í ljós en nokkru sinni áður, að full þörf er á að 8MH aðgreini sig enn frekar frá Rsh ef hún á annað borð ætlar sér það. Það má því segja að sú hvatning sem 8MH fær í gegnum samstarfið sé mikill ávinningur. Nokkrir félagar.

## Til ábendingar fyrir ritstjóra Verkalýðsblaðsins

Í Verkalýðsblaðinu 3. apríl er viðtal við Sigurð Tr. Sigurðsson fyrrum trúnaðarmann í kerskála í Straumsvík. Viðtalið var gott svo langt sem það náði, en mikilvægum atriðum var sleppt og má þar helst nefna kosningar trúnaðarmanna í kerskála nýverið. Það voru 3 menn í framboði til trúnaðarmannastarfa og var Sigurður Tr. einn þeirra, en kosið var um tvo. Náði hann ekki kosningu og fer þar með lítið fyrir hinum eindregna stuðningi verkamanna. Öll sagan er þó ekki sögð og er ritstjórinn hvattur til að hafa samband við verkamenn í kerskálanum (þar með talda hina nýkjörnu trúnaðarmenn) og kynna sér og lesendum Verkalýðsblaðsins málið betur.

Stimpilklukkudýr hjá Ísal.

---

# STALDRAÐ VIÐ

> "...Strákurinn minn fékk 200 þúsund kall, auk ýmissa stærri og smærri gjafa í vörum, fyrir að láta knébeygja sig og gera sig að athlægi í hvítri prestenglaskikkju..."

Ég fór í fermingu um daginn. Reyndar ekki neina venjulega fermingu fyrir mig. Það var verið að ferma son minn, sem dvelur hjá ömmu og afa og stundum mömmu úti á landi. Ég fékk engu um það að ráða, reyndi kannski ekki nóg til þess. Strákurinn vildi láta ferma sig. Ekki af trúarlegum áhuga, heldur vegna umhverfis síns - nágranna, ættingja, skólasystkina. Ég held hann sé næstum því trúlaus, að minnsta kosti finnst honum guðleysisgasprið í mér ekkert svo vitlaust.

Messan var upplifun fyrir mig, sem hef forðast kirkjur í mörg ár og hlustaði aldrei á prestana, þegar ég tilneyddur tók þátt í kirkjulegum athöfnum hér áður fyrr. En nú hlustaði ég. Og mér ofbauð. Ræða prestsins fjallaði um það að flest fólk væri nautheimskt, því að það tæki mark á kókakólaauglýsingum, en ekki á "lausnara sínum". Þá kom sérann að því að lýsa réttindum og skyldum hins kristna eftir fermingarheit sitt. Þar voru réttindin fá, lýðræðið lítið, en skyldurnar margar. "Þú skalt ekki ...þú mátt ekki...þú átt að ...þér ber að... o.sv.frv."

Auk ræðunnar voru sungnir hræðilegir söngvar, svokallaðir sálmar - slepjulegt og væmnislegt sífur einhæfra laga. Á meðan sneri prestur rassinum í söknarbörnin og fermingarbörnin, nema hvað hann rauf þann frið sem þau höfðu fyrir honum stöku sinnum til að vitna í einhvern þeirra gömlu skrifara og trúarofstækismanna, sem skráðu kaflana, sem þröngvað var saman í þessa hræðilegu bók, Bilblíuna. Á meðan klerkur hafði eitthvað yfir frá þessum trúbræðrum sínum, löngu dauðum, varð hinn heimski kókakólalýður á kirkjubekkjunum að rísa á lappir og stara á hnakka hver annars í lotningu.

Svo kom að sjálfri fermingunni. Kennimaðurinn lýsti því yfir að hann ætlaði að beygja kné þessara unglinga fyrir valdi kristindómsins, gekk síðan að hverjum og einum og hafði yfir honum einhverja óskiljanlega romsu úr messugjörðarbókum sínum, lagði lúku sína á vel greidda kolla og spurði síðan hvert 13 ára barnið fyrir sig, hvort það vildi"gera Jesúm Krist að leiðtoga lífs síns". Þessu lofuðu börnin upp í ermina á sér, knébeygð og kúguð af klerksins valdi.

Að lokinni athöfn gekk prestur út undir slætti orgels og á eftir honum krakkarnir í halaröfu,klædd í þessar afskræmislegu skikkjur, sem eru eftirlíking englavængja og prestskrúða.

Svo tók allt hitt við, tilefni og afsökun hvers krakka fyrir að standa í þessu niðurlægjandi kirkjuveseni, nefnilega veisluhöldin og gjafirnar. Strákurinn minn fékk 200 þúsund kall, auk ýmissa stærri og smærri gjafa í vörum fyrir að láta knébeygja sig og gera sig að sthlægi í hvítri prestenglaskikkju. Ég vorkenndi honum greyinu. Ég vorkenni krakkagreyjunum að þurfa að ganga í gegnum þetta. Ættum við ekki að gera eitthvað til að losa börnin undan þessu oki falskra kirkjusiða og óþverralegs trúaráróðurs? Ég sé eftir að hafa ekki gert harðari hríð að syni mínum. Ég sé eftir að hafa ekki gert honum betra tilboð, gefið honum kost á einhvers konar fermingu, en án presta eða annarra málpípa kúgunar og auðvalds. Næsta barn mitt sem kemst á fermingaraldur skal svo sannarlega fá frá mér valkost. Ég ætla að bjóðast til að leigja sal á laugardegi í 5 klukkutíma.

Dagskráin gæti orðið þessu lík:
1. Sönghópur syngur 2-3 barátulög.
2. Fermingarræða (ég eða einhver annar kommi).
3. Ljóðalestur, valið af fermingarbarninu.
4. Fjöldasöngur, t.d. einhver góð ættjarðarlög sem allir kunna.
5. Kaffihlé í 1 klst.,svo að gestirnir geti rabbað saman.
6. Stuttur leikþáttur, leikinn af fermingarbarninu og nokkrum félögum þess.
7. Ávarp um söfnun fjár til Verkalýðsblaðsins eða Október eða frelsishreyfingar og peningum safnað meðal gesta.
8. Sönghópurinn aftur.
9. Lokaávarp þar sem fermingarbarnið þakkar fyrir komuna.
lo. Dans fyrir krakkana í 1-2 klst.

Kommaforeldrar og aðrir góðir foreldrar, sem er illa við kirkjulygar og kirkjublekkingar, hafið þetta í huga, þegar börn ykkar komast á fermingaraldurinn. Flest börn finnst þau missa af of miklu, ef þau fá enga veislu og ekki neitt og treysta sér ekki til að mæta stríðni skólafélaganna. Gefum þeim kost á að svara: "Ég verð fermdur, en bara allt öðruvísi en þið og miklu betur. Þar verður sko fjör."

Finnur.

---

## – viðtal við Kjartan

Frh. af baksíðu

starfi Baráttueiningar og Rauðrar Verkalýðseiningar á 1.maí í fyrra.

– Hver eru helstu markmið hreyfingarinnar?

– Sameining hefur ákveðið að standa fyrir öflugum aðgerðum 1.maí. Farið verður í kröfugöngu, haldinn inni- og útifundur og skemmtun um kvöldið. Við leggjum mesta áherslu á að hvetja fólk til baráttu gegn kjararánsstefnu atvinnurekenda og ríkisvalds svo og gegn öllum þeim atlögum sem gerðar hafa verið á félagslega þjónustu. En ekki er nóg að segja þetta. Við verðum einnig að gera okkur ljóst að árangur í þessarri baráttu næst ekki nema um leið sé háð hörð barátta gegn stéttasamvinnustefnu verkalýðsforrystunnar Samhliða því að Sameining leggur áherslu á kröfuna Ísland úr Nato - herinn burt leggjum við einnig mikla áherslu á baráttuna gegn yfirgagnsstefnu risaveldanna Bandaríkjanna og Sovétríkjanna, sem birtist m.a. í skýrum stuðningi okkar við alþýðu manna í löndum þar sem baráttan er hörðust eins og í Eritreu, Palestínu og Kampútseu.

– Hvað með göngu fulltrúaráðsins og Rauðrar Verkalýðseiningar?

– Ég tel aðgerðir þeirra engan valkost fyrir fólk. Að líkindum kemur Fulltrúaráðið til með að styðja ríkisstjórnina og aðgerðir hennar. Verkalýðsforystan hefur unnið að því meðvitað að koma í veg fyrir alla baráttu gegn kjararánsstefnu ríkisvaldsins. Það sést m.a. á því að engir fundir hafa verið haldnir í stéttarfélögunum. Hún gengur meira að segja svo langt að bjóða ríkisstjórninni og verkafólk taki á sig kjaraskerðingar. Allt er þetta svo gert án samráðs við smærri stéttarfélög og hvað þá verkafólkið sjálft. Hver man ekki eftir makki Guðmundar J. og Karls Steinars ? Þó verkalýðsforystan setji upp rauða grímu núna 1.maí þá ætti fólk ekki að taka mark á því, vegna þess að það gerði hún í fyrra og hitteðfyrra og tók hana svo niður strax að 1.maí loknum.

Hvað varðar Rauða Verkalýðseiningu þá hefur lítið sést til hennar ennþá, en ljóst er að hún styður útþenslustefnu Sovétríkjanna. Fylkingin hefur ekki tekið afstöðu gegn innrás Víetnama í Kampútseu og hún styður aðgerðir kúbönsku málaliðanna í Afríku. Stuðningur Rauðrar Verkalýðseiningar við verkalýðsforystuna hefur oft komið í ljós. Fylkingin hefur oft lýst yfir stuðningi við "verkalýðsflokkanna" (Alþýðubandalagið og Alþýðuflokkinn). Nýjasta dæmið er stuðningur forsprakka Fylkingarinnar við samkomulag BSRB forystunnar, þar sem þeir hvetja fólk til að segja já við samkomulaginu.

– Hvert hefur verið meginstarf Sameiningar nú fyrir 1.maí ?

–Við höfum lagt mesta áherslu á áróðursstarf. Í þeim tilgangi höfum við haldið tvo liðsfundi, gefið út merki, þrjú plakót og eitt dreifirit. Ætlunin er að gefa út dreifirit í miklu upplagi og eitt stórt plakat, sem mun auglýsa aðgerðirnar. Þann 27. apríl verðum við svo með kökubasar á útimarkaðinum og einnig munum við baka pönnukökur ofan í vegfarendur. Ætlunin er einnig að vera með aðgerðir á nokkrum stöðum í bænum til að vekja athygli á starfi sameiningar.

– Að lokum ?

– Ég vil auðvitað hvetja fólk til að streyma í aðgerðir Sameiningar og vinna vel að því fram að 1.maí að fá fólk út á göturnar. Hittumst á Hlemmi!!

**Áskrift greiðist á gíró nr. 12 200 - 9**



VERKALÝÐS BLAÐIÐ

Málgagn Einingarsamtaka kommúnista (marx-lenínista)

Gerist áskrifendur
Áskrift greiðist á
gíró 12200-9

ÁBM: ALBERT EINARSSON
1 árs áskrift: kr. 3000
1/2 árs áskrift: kr. 1750
Til útlanda: kr. 5500
Stuðningsáskrift: kr. 5000
ÓÐINSGÖTU 30 Pósthólf 5186,
Reykjavík, sími: 29212



# Hvað er Andóf '79 ?

Samkomulag BSRB forystunnar við ríkisstjórnina um afnám 3% grunnkaupshækkunar 1. apríl s.l. hefur verið harðlega gagnrýnt af ýmsum félagsmönnum í BSRB. Þegar hafa nokkur félög opinberra starfsmanna lýst yfir andstöðu sinni við það. Má þar nefna Félag íslenskra símamanna, Félag gagnfræðaskólakennara í Rvk. Stéttarfélag íslenskra félagsráðgjafa og Starfsmannafélag Útvarpsins.

Það er því greinilegt að töluverð andstaða er við samkomulagið og fer hún vaxandi. Í páskavikunni kom saman hópur einstaklinga úr ýmsum félögum ríkis - og bæjarstarfsmanna. Þessi hópur ákvað að stofna félagsskap sem þau nefna Andóf '79. En hvað er þá þetta Andóf ? Til að komast að því ræddum við við tvo félaga Andófs '79, þá Eirík Brynjólfsson kennara og Pétur Pétursson þul. Fara viðtölin hér á eftir:



PÉTUR PÉTURSSON
Mynd: VERKALÝÐSBLAÐIÐ

- Sá vettvangur sem við höfum, félögin, nýtist ekki vel. Vinnuþreyta og búðarvafstur veldur því, að fólk mætir ekki á fundum. Fundir eru auk þess strjálir og bundnir við einstök félög. Málefnið varðar heildarsamtökin og þar er þörf á frekari umræðum. Í andófinu felst engin allsherjarkrossfesting á forystunni, en þarna teljum við að hún hafi stigið víxlspor. Sú leið var valdin að láta trúnaðarmenn eina ræða þetta, en almennir félagar hvergi kvaddir til fyrr en þessi niðurstaða var fengin og þar gengur forysta BSRB svo vasklega fram, að hún virðist ætla að leggja höfuð sitt að veði til þess að fá samkomulagið samþykkt. Það er fjarri mér að neita því, að einhver hugsanlegur ávinningur kunni að vara í einhverju atriði samkomulagsins. Þó svo að það kynni að vera tel ég fráleitt að fara í slík hnífakaup og er með því skapað hættulegt fordæmi. Aukinn verkfallsrétt eigum við sjálf að taka og það án þess að afsala áunnum réttindum. Við megum ekki láta forvígismenn okkar hræða okkur með hótunum um að ríkisstjórnin veiti okkur ekki rýmri verkfallsrétt ef við neitum þessu samkomulagi. Ef við fellum samkomulagið og meirihluti okkar verður yfirgnæfandi þá er það þyngsta lóð, sem hugsast getur á vogarskál aukins verkfallsréttar. Samningar við þessa ríkisstjórn opna næstu ríkisstjórn leið til frekari knésetningar á samtökum okkar og rýra trú félaganna á gildi þeirra.

- Hvernig telur þú horfurnar . Ertu bjartsýnn ?

- Ég hef bjargfasta trú á því, að í þessu efni fylgi almennir félagar BSRB ekki forystu sinni. Ég held að vitundin um sífelldar verðhækkanir og árásir á lífskjör, sem við verðum daglega vitni að segi fólkinu skýrum orðum, að í þessum samningsréttarmálum hafi forystumennirnir stigið víxlspor, sem ekki eigi að fylgja þeim í.

- Eitthvað að lokum ?

- Nú er sérstök nefnd önnum kafin við gerð merkis, sem ætlunin er að stuðningsmenn hreyfingarinnar beri fram yfir atkvæðagreiðsluna. Ég sting upp á því að menn horfi í kring um sig 1.maí og líti í barm þeirra er fylkja liði þann dag. ANDÓF '79 mun blasa við á mörgum barmi.



EIRÍKUR BRYNJÓLFSSON
Mynd: STÉTTABARÁTTAN

- Hvernig er hreyfingin byggð upp og hverjir geta orðið félagar ?

- Hreyfingin er enn sem komið er að minnsta kosti mjög óformleg. Eiginleg stjórn er ekki til en ákvarðanir eru teknar á fundum þar sem áhugafólk gegn samkomulaginu kemur. Það er ýmist fólk, sem við höfum haft samband við eða fólk sem hefur komið til okkar. Hreyfingin hefur enn enn ekkert tengst þeim aðildarfélögum opinberra starfsmanna sem mótmælt hafa samkomulaginu. En það stendur til að leita stuðnings þeirra. Allir opinberir starfsmenn, sem vilja láta sitt af mörkum í baráttunni gegn þessu samkomulagi eru velkomnir til starfa.

- Hvað hyggst hreyfingin gera fram að allsherjaratkvæðagreiðslunni ?

- Við leggjum megináherslu á vinnustaðastarf. Fulltrúar hreyfingarinnar hafa farið á vinnustaði í matartímum og haldið ræður og rætt við fólk. Undirtekningalaust hefur verið tekið vel á móti þeim. Andófi '79 hafa líka borist óskir um að senda fulltrúa á tiltekna vinnustaði, bæði í Reykjavík og annars staðar. Nú á næstunni mun hreyfingin gefa út dreifirit til dreifingar á vinnustöðum. Framhald verður á einhverskonar útgáfu ef þurfa þykir. Einnig er verið að undirbúa útgáfu merkis, sem selt verður á fundum. Að síðustu er áætlað að halda opinberan fund með skemmtiatriðum og ræðuhöldum. Sá fundur verður líklega lokastigið í starfi hreyfingarinnar.

- Eitthvað að lokum ?

- Ekki nema það að hvetja alla sem vilja að koma til starfa. Þessi barátta kostar fólk og peninga. Því fleiri sem koma til starfa því meiri möguleika eygjum við um árangur.

Verkalýðsblaðið þakkar þeim Eiríki og Pétri fyrir spjallið og vill um leið lýsa yfir stuðningi við þetta framtak. Við hvetjum þá félaga BSRB, sem vilja leggja sitt af mörkum til þess að samkomulagið verði fellt til að setja sig í samband við einhvern af eftirtöldu fólki:

Eiríkur Brynjólfsson, s. 21465
Guðrún Jónsdóttir, s. 83737
Helga Gunnarsdóttir, s. 41527
Sigríður Jóhannesdóttir, s. 81499
Sigurður I. Andrésson, s. 34287.

# Aðgerðir Sameiningar 1. maí - gegn kjaraskerðingu




Helstu kjörorð Sameiningar eru:

- Gegn stéttasamvinnu verkalýðsforystunnar við auðstéttina - Gerum stéttarfélögin að baráttutækjum.

- Gegn kjararáni - Fullar og óskertar vísitölubætur á laun. Félagar BSRB: Fellum svikasamkomulagið

- Fullan samnings og verkfallsrétt. Engan niðurskurð félagslegrar þjónustu. Verkfalls- og samningsrétt til handa iðnnemum. Verjum samningsréttinn.

Auk þessa eru: Kvennabarátta á grundvelli stéttabaráttu. Næg og góð dagvistarrými fyrir öll börn. Gegn skerðingu á rétti kvenna til fóstureyðinga. Í málefnum námsmanna er lögð áhersla á: Jafnrétti til náms. Námslán nægi til framfærslu. Engar endurgreiðslur námslána af þurftarlaunum. Samstaða námsfólk-verkafólk.

Í baráttunni gegn heimsvaldastefnunni og fyrir verndun sjálfræðis landsins leggur Sameining mesta áherslu á: Ísland úr NATO - herinn burt. Gegn erlendri stóriðju. Verndum fiskistofnana. Til baráttu gegn yfirgangs- og stríðsstefnu risaveldanna. Styðjum frelsisbaráttu alþýðu Kampútseu, Eritreu Palestínu og Zimbabve.

KRÖFUGANGA OG FUNDIR

Sameining 1.maí gengst fyrir kröfugöngu, útifundi og innifundi. Safnast verður saman á Hlemmtorgi, fyrir framan Búnaðarbankann, upp úr kl. 13:00 gengið niður Laugaveg, að Hallærisplaninu, þar sem haldinn verður útifundur. Innifundur verður haldinn að göngunni lokinni, um kl.16.

Meðal ræðumanna Sameiningar 1.maí verður félagi úr BSRB - Andófi '79. Í bígerð er að fá fulltrúa frá þjóðhollum Kampútseumönnum, til að flytja ávarp og skýra frá baráttu þjóðar sinnar gegn yfirgangsstefnu Víetnama og Sovétríkjanna í þessum heimshluta. Óvíst er enn hvort af því getur orðið.

Fjölbreytt skemmtidagsskrá verður flutt í Háskólabíói. Á söngsveitin Kjarabót þar stærstan hlut, en auk þess verður margt annað um að vera, leikþættir ofl. Barnapössun verður skipulögð fyrir þá sem þurfa.

Um kvöldið verður síðan skemmtifundur í Hreyfilshúsinu frá kl. 20-24. Gert er ráð fyrir skemmtidagskrá til að byrja með, en síðan verði stigin dans.

- Merki, plaköt og dreifirit er hægt að fá í Októberbúðinni að Óðinsgötu 30, Rauðu stjörnunni Lindargötu 15 og hjá Sumarliða Ísleifssyni, Skaftahlíð 9. Þar er jafnframt hægt að fá allar upplýsingar í síma 23076.

# Baráttan gegn kjararáninu mikilvægust í 1. maí aðgerðunum

## viðtal við Kjartan Valgarðsson stjórnarmann

Eins og skýrt var frá í síðasta blaði náðist samkomulag um sameiginlegar aðgerðir 1.maí milli Baráttueiningar og Samfylkingar. Þessir aðilar hafa náð samkomulagi um grundvöll og nafn á fyrirbærið, sem er Sameining 1.maí gegn kjaraskerðingu.

Blaðið náði tali af einum stjórnarmanni Sameiningar, Kjartan Valgarðssyni, og byrjaði á því að spyrja hver hefði verið aðdragandinn að stofnun Sameiningar.

- Aðdragandinn er sá, að á fyrsta fundi Samfylkingar 18.mars s.l. kom fram samstarfstilboð frá Baráttueiningu. Þessi fyrsti var haldinn samkvæmt samþykkt liðsfundar Samfylkingar 1.maí 1978 að loknum fyrsta maí í fyrra. Á fundinum var ákveðið að Samfylking og Baráttueining hæfu viðræður um sameiginlegar aðgerðir. Þá þegar lá ljóst fyrir að grundvöllur hreyfinganna væri mjög svipaður og að úr samstarfi ætti að geta orðið.

- Hvers vegna er samstarf þessara aðila mögulegt nú fyrst það var það ekki í fyrra?

- Baráttueining telur sig frekar vilja starfa með okkur nú heldur en í fyrra. Þá náðu Baráttueining og Rauð Verkalýðseining (Fylkingin, innskot okkar) samstöðu á grundvelli, sem Samfylking 1.maí 1978 gat ekki sætt sig við. Þá eins og nú bar lítið á milli grundvallar Baráttueiningar og Samfylkingar en Samfylking lagði hins vegar ekki næga áhreslu á að ná samstöðu þessarra tveggja hreyfinga. Er það sennilega ein af orsökunum fyrir sam-

Frh. á bls. 11